# ÁRBÓK

HINS

# ÍSLENZKA FORNLEIFAFÉLAGS

1893.



REYKJAVÍK.
PRENTUÐ Í ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJU
1893.

# ÁRBÓK

HINS

# ÍSLENZKA FORNLEIFAFÉLAGS

1893.



REYKJAVÍK.
PRENTUÐ Í ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJU
1893.

# Rannsóknir í Breiðafirði 1889.

Eftir

**Sigurð Vigfússon.**

## Svefneyjar.

(29. júlí).

Í suðr frá bænum í Svefneyjum er hóll í túninu, sem kallaðr er *Þinghóll* og í útsuðr frá honum er gerði, sem er aflangr ferhyrningr um 15 faðmar á lengd, enn um 10 faðmar á breidd; í þann enda, sem að hólnum snýr, er þvergarðr yfir girðinguna með dyrum á. Nú er úr þessu gerðr kálgarðr. Öll þessi girðing er mjög fornleg, niðrsokkin og sumstaðar aflöguð. Að útsunnanverðu í hólnum eru klappir; þar sem girðingin hefst við klappirnar, heitir *dómsæti*, sem stendr svo sem fyrir miðri girðingunni. Í norðr og vestr frá hólnum eru fjórar tóftir, sem eru mjög fornlegar, niðrsokknar og aflagaðar, og fleiri tóftir hafa þar getað verið, þótt eg þori ekki að fullyrða það. Í vestr frá þessari girðingu er lítil hæð eða hóll, sem kallaðr er *Goðahóll*; að austan og sunnanverðu hefir á síðari tímum verið stungið upp úr hólnum, svo að hann hefir aflagazt. Þar sést að vísu fyrir grjóti, enn hvort það eru mannaverk verðr ekki sagt.

Lengra út, suðr frá bænum, niðr við voginn, er allstórt svæði, sem kallaðir eru *Akrar*. Það er alt umgirt og er á lengra veginn um 50 faðmar, enn um 25 á hinn. Alt þetta svæði innan garðs er sundrskift með stærri og smærri girðingum. Þessar smágirðingar eru víst fjórar eða fimm. Allar eru þessar girðingar ákaflega fornlegar og víðast hlaðnar úr grjóti, að því er sést. Þetta er utan túns.

Austr frá bænum í túninu á Svefneyjum er lítil laut, sem kölluð er *Þrælalág*, 13 fet á hvorn veg; hún er við voginn (Bæj-



May 1912 & 79
Aug 19 1908
425388

arsundið) rétt á sjávarbakkanum. Lautin er mjög grunn og fornleg að sjá, og er kend við þræla Hallsteins. Eru munnmæli, að hann hafi komið þar að þeim sofandi og hengt þá inn í Sviðnum, í *Gálgaklett*, sem kallaðr er. Þeir áttu að hafa verið við saltgerð, enn svikust um það. (Sbr. Landn., Kh. 1843, bls. 101).

Lengra í austnorðr frá bænum og inn á tanga, sem þar sker sig fram, er steinbogi, sem hlaðinn veggr væri, og fellr sjórinn þar upp að, enn sunnan fram með steinboganum eru grafir nokkurar, sem enn í dag eru kallaðar *Saltgrafir*; þær eru fjórar að tölu, að því er nú sést, og liggja þær alveg þétt við steinbogann. Hin stærsta er um 6 fet í þvermál. Botninn í grófunum mun hafa verið steinlagðr, og jafnvel mætti álíta, að klöppuð hefði verið vík inn í steinbogann er myndi aðra hið grafanna. Þær eru nokkuð aflagaðar, enn hafa getað haldizt, því hér er ekki sandr, heldr klöpp undir. Þetta eru þær einu saltgrafir, sem nafn hefir haldizt á og eg hefi heyrt um talað, og eru þær því merkilegar.

## Hergilsey.

Hergilsey liggr, sem kunnugt er, tæpa 1¼ mílu norðr frá Flatey. Eyjan er með hávum hólum og lægðir á milli og vogskorin mjög. Þar eru margar víkur og tangar. Víðsýni er þar mikið og sést þaðan nálega um allan Breiðafjörð. Norðan á eynni stendr bærinn. Þar eru nú þrír bæir og bil á milli. Bær Kristjáns bónda er elztr, og bygðr norðan í rústinni af bæ Ingjalds.

Hergilsey hefir lengi legið undir Flatey og verið óbygð á síðari tímum, þar til Eggert Ólafsson bygði þar aftr bæ 1782 á rústum Ingjalds. Fyrir ofan bæinn er tóft mikil, ákaflega fornleg, niðrsokkin og útflött; annar hliðveggr tóftarinnar er mestmegnis undir bænum, enn hinn sést, og af honum má ráða, að tóftin hefir verið 70—80 fet á lengd, og þverveggr í syðri enda tóftarinnar. Þar hafa og verið öskuhaugar miklir. Við nyrðri enda tóftarinnar hafa og verið byggingar miklar, því að Eggert reif þar upp mikið af grjóti, sem var mjög niðrsokkið. Það er víst, að hér hefir bær Ingjalds verið. Rétt fyrir sunnan bæinn gengr hæð mikil, nær þvert yfir eyna; í henni er stuðlaberg með smástöllum; þar heitir enn í dag Ingjaldsbyrgi og mótar fyrir veggjum, enn klettr er á eina hliðina. Þar var fram á þessa öld steinn á hlóðum, og er það sá raufarsteinn, sem sagan talar um (þ. e. steinn með rauf undir) og fíflið var tjóðrað við. Nú er steinn þessi burtu, enn hlóðin standa eftir; þau gróf eg upp, og

er rúmt $1\frac{1}{2}$ fet milli hlóðanna, enn steinninn, sem yfir lá, hefir verið klofinn sundr og brúkaðr. Fyrir utan þetta Ingjaldsbyrgi hefir á síðari tímum verið hlaðið fjárbyrgi. Enn útsunnan á hæðinni heitir enn þá Vaðsteinaberg.

Í útsuðr frá Hergilsey eru Skjaldmeyjareyjar um $\frac{1}{2}$ mílu sjávar. Það eru óefað þær eyjar, er sagan kallar Skutileyjar. Þar austantil við eyjarnar hafa þeir Gísli setið á fiski og þaðan blasir við Vaðsteinaberg. Þeir Eyjólfr hafa róið þar beint að landi og lent í víkinni rétt fyrir vestan Vaðsteinaberg, sem kallað er, á Hergilsey[1]. Þar má lenda um flóð og fjöru. Hér hefir Ingjaldr lent, því að það lá beint við, og gengið upp í bergið. Staðrinn, sem Ingjaldr og þrællinn stóðu á, verðr nákvæmlega tiltekinn; hann er efst á Vaðsteinabergi; þetta kemr alt vel heim við söguna. Þegar Börkr hefir komið upp á hæðina, og sá ekki Gísla, hefir hann farið heim á bæinn og rannsakað; síðan hefir hann farið um alla eyna, og loks komið að lautinni sunnan til við hæðina, sem gengr norðr af Vaðsteinabergi, þar sem byrgið var. Þetta var og skilyrði fyrir því, að Gísli kæmist undan, að þeim dveldist sem lengst. Að öðrum kosti mundu þeir Börkr brátt hafa náð Gísla, þar sem þeir voru 14 á skipi, enn þau Gísli tvö ein.

Eg skal geta þess, að «Vöst« heitir mið í vestr af Flatey og beint í suðr af Skutilseyjum; þetta er þó ekki sú »vöst«, sem sagan talar um, enn fiskimið hétu »vastir« alment í fornöld.

## Að Auðshaugi.

(2.—3. ágúst).

Eg fór alla leið frá Hergilsey og upp á Hjarðarnes, eins og Gísli; það eru $2\frac{1}{2}$ vika sjávar. Enginn hefir áðr vitað, hvar Gísli kom að landi, enn þetta er þó auðséð. Tæpa $1\frac{1}{4}$ viku fyrir utan Auðshaug eru tveir hólmar rétt við landið og fjarar í báða; utan til við ytri hólmann miðjan hefir Gísli lent; hann liggr beint við og þangað er einna styzt úr Hergilsey, enda kemr það alveg heim við söguna. Þar er lítil vík og annarstaðar flýtr ekki að, enn Börkr var á stóru skipi, meira enn tíæringi. Þegar Gísli hleypr hér yfir þvera eyna, verðr fyrir honum hið eina *hamarsskarð*,

---

1) Stykkiseyjar heita meira enn hálfa mílu austr af Hergilsey. Þær geta ómögulega verið þær eyjar, sem þeir Gísli sátu hjá, og Börkr hefði þá alls eigi hitt Gísla, því það var langt úr leið.

sem hér getr verið um að ræða; það er í hallanum rétt við sjóinn og fellr upp að klettinum eða upp í hann um flæði; það er standklettr meira enn tvær mannhæðir. Skarðið liggr lítið eitt á ská, og átti Gísli því hægra með að vera í leyni, enn Saka-Steinn hefir ekki varað sig á þessu bragði, enda hefir hann ekki getað stilt sig þar í snarbröttum halla, er hann hljóp eftir Gísla. Milli klettanna er um $2^1/_2$ alin, enn þvert yfir eyna frá flæðarmáli að sunnan og þangað til fer að halla niðr eru 25 faðmar. — Þegar Gísli hafði höggvið Stein, hleypr hann á sund; enn þá kemr Börkr á bakkann og skýtr eftir honum spjóti; það var stutt færi; og það er hér, sem Gísli týnir sverðinu, enn þetta sund er ekki meira enn um 30 faðma; þar er slétt flúð, lítið grasi vaxin, sem ekki fer í kaf nema í stórstraum, enn það sést af sögunni, að hásjávað var, og er það skilyrði fyrir því, að þetta gat átt sér stað. Þessi flúð hefir þá staðið upp úr, og innan við eru smáflúðir og grynningar, svo að ekki vóru tiltök fyrir Börk að komast það á stóru skipi. Þetta hefir Gísli vitað, sem hér var kunnugr, og það barg honum. Börkr hefir því orðið að lenda miklu utar, enda fara fyrir utan »Markhólma«, sem kallaðir eru. Þegar Gísli kemr á land, beint upp af ytri Lynghólmanum, hefir hann farið þar sem mestar vóru flúðir, enn Börkr komst ekki að. Þar er stórt grashvolf upp frá sjónum undir hlíðinni; þar hefir verið skógrinn, sem talað er um; þar hafa og fundizt lurkar. Þar hafa þeir því einkum leitað, og þar gátu þeir kvíað hann, enda er líklegt, að Gísli hafi ætlað sér að komast upp á fjallið, því héðan er styzt upp í klettana, og nógir eru þar helliskútar, enn Gísli hefir ekki getað það vegna sárs og mæði, þar sem hann hefir róið lífróðr frá Skutilseyjum $2^1/_2$ viku sjávar. Þó leitar Gísli sér ráðs, og fer niðr til sjávar hljóðlega; þar hagar svo til, að þar eru háir grasbakkar inn með sjónum, og þegar kemr lengra inn undir Haug, er háir klettar á löngu svæði, og enda rétt fyrir utan túnið; þar fer Gísli upp og heim að bænum. Þetta hefir alt tekizt, með því myrkt var orðið, og er hér frá öllu sagt með hinni mestu nákvæmni. Það kann að vera, að Börkr hefði getað komizt að landi milli Langhólmanna og Markhólmanna, sem áðr eru nefndir, og skotið þar upp mönnum, enn með því einu móti, að verið hefði stórstraumsflæði, enn þó er það ekki víst, enn eflaust hefir hann orðið að fara með skipið í þá einu lending, sem þar var til, önnur enn á Haugi.

*Hamarseyjar* eru nær því $^1/_2$ viku út frá Markhólma; þær eru 5, og þar að auki fjöldi smáhólma og skerja; þar hefði því

Gísli orðið að synda yfir ótal sund, áðr hann komst í land, og þar hefði því Börkr getað náð honum, áðr hann komst í land. *Ambáttarsker* eru fram af Hamarseyjum, og kenna munnmælin þau við ambátt Gísla; enn það getr ekki verið rétt, enda hagar þar svo landslagi, að Gísli hefði ekki getað leynzt þar, er hann kom í land. Það getr verið, að Berki hefði flotið fyrir utan Markhólmann ytri; í sundinu þar fyrir utan er hægt að skjóta upp mönnum, hefði hann farið með skipið sem áðr er sagt. *Hamar* er bær rétt fyrir utan *Fossá*, enn Fossá er stærri jörð, og því hefir Börkr þangað farið. Það er enn, að hefði Gísli lent við Hamarseyjar, hefði Börkr ekki látið leita hans að Auðshaugi, því að bæði er það svo langt og líka beint úr vegi, þegar fara á til Geirþjófsfjarðar.

## Smiðja Gests Oddleifssonar.

(5. ágúst).

Á að gizka 300 faðma upp af botninum á Vatnsfirði (frá stórstraumsflæði talið), að norðanverðu við Þingmanna-á, við »Smiðjufljót« sem kallað er í ánni, er forn tóft, sem í almæli er kölluð »Smiðja Gests Oddleifssonar«. Þar sem tóftin stendr, kallar Eggert Ólafsson »Smiðjunes« (E. O., I., 407—8), og »Smiðjukleifar« eru kallaðar enn í dag þar austr og upp. Tóft þessi er í »Mörkinni«, sem kölluð er (= Vatnsdalsmörk), því að þar eru víðlendir skógar. Tóftin er um 7 faðma frá Þingmanna-á, og snýr nálægt því í landsuðr og útnorðr samhliða ánni. Tóftin er ákaflega fornleg og niðrsokkin, og var mjög ilt að átta sig á henni, með því að hún var öll vaxin háum og þéttum skógi. Þessa tóft lét eg grafa alla umhverfis, og skoðaði allar ytri hleðslur, og sáust þær allar greinilega, með því að tóftin mun öll hafa verið hlaðin úr grjóti. Tóftin er 28 fet á lengd utan veggja, enn 20 fet á breidd. Landsuðrgafl tóftarinnar er hálfkringlóttr fyrir, sem oft er vani á fornum tóftum, enn útnorðrgaflinn beinni fyrir. Dyr eru út úr þeirri hlið tóftarinnar, sem að ánni snýr, nær útnorðrgaflinum, sem og er einkenni á fornum tóftum; sáust dyrnar glögglega, enn vóru nokkuð hlaupnar saman. Þegar eg kom að tóftinni fyrst, vóru á móti dyrunum í miðri tóftinni steinar 2 ákaflega miklir. Annar þeirra er með djúpri og víðri, ferhyrndri steðjaþró, og er þróin 5 þumlunga út á brún

á hinn lengra veg, enn 4 þumlunga á hinn veginn; brúnirnar eru mjög svo máðar og fornlegar. Steðjaþróin er 5½ þumlungr á dýpt. Steinn þessi er mjög svo ferskeyttr, með flötum hliðum á 2 vegu. Hann er rétt alin á hæð; lengd frá yzta horni 1½ alin; breidd 21½ þuml. Hinn steinninn hefir líka lögun; sléttar hliðar á 2 vegu; hann er sömuleiðis 1 alin á hæð; lengd hans er um 1 alin og 1 þumlung; breidd um 18 þumlunga. Þessa steina lét eg grafa upp báða og velta þeim með vogum út úr tóftinni, til þess að geta rannsakað gólfið. Þar fanst í kringum steinana bæði *gjall* og kola-aska og þess konar gólfskán, og yfir höfuð var þar fult af aflösku og ýmsum slíkum einkennum. Yfir um þvera tóftina, að landsunnanverðu við dyrnar, var grjóthleðsla allmikil, enn þó mjög úr lagi gengin. Steinarnir í henni vóru svartir og eldlitaðir, og rannsökuðum vér mjög svo hleðslu þessa. Framan í grjóthleðslunni fundum vér mikil einkenni af reglulegum *deigul-mó*, sem eg tók með mér til sýnis.

Það er því ljóst, að þetta getr ekki annað verið enn smiðjuafl, með því að hinir áðrnefndu steinar vóru í sömu afstöðu frá aflinum, sem venja er til enn í dag, þ. e. a. s. steinninn með steðjaþrónni stóð innar í miðri tóftinni, enn hinn steinninn framar rétt á móti dyrunum. Það er því sjáanlegt, að steinn þessi hlýtr að hafa verið *reksteinn*, og ber hann þess merki að ofan, að lúð hefir verið járn á honum. Hann er mjög svo flatr ofan, enn nokkur laut þvert yfir hann, ekki þó í miðjunni, heldr nær öðrum enda hans. Enn fremr skal ég geta þess, þessu til sönnunar, að þegar eg kom til Flateyjar um daginn, gaf Eyjólfr Jóhannsson, kaupmaðr í Flatey, eða frú Sigrborg kona hans, mér sleggju allmikla og svo fornlega, að eg hefi enga slíka séð. Hún er ryðbrunnin með pollum eða básum og mjög uppbarin í báða enda. Á henni hefir verið sem nokkurs konar munni í annan endann; er klofið þar úr mikið stykki, og þannig var hún er hún fanst. Hún fanst fyrir 20—30 árum nálægt reksteininum, og er það víst um þetta verkfæri, að það er frá fornöld. Báðir steinarnir (steðjasteinninn og reksteinninn) vóru skorðaðir upp með grjóti eða hlaðið undir þá, enn vóru þó farnir að hallast. Frá yfirborði jarðar niðr að gólfi tóftarinnar var fullkomlega 2 álnir. Þessi grjóthleðsla eða afl var hlaupinn sundr, einkum sú hlið, sem til landsuðrsgaflsins vissi, eða þar, sem belgrinn hefði átt að vera. Innri hleðsla gaflsins var og hlaupin inn og var þannig allr syðri endi tóftarinnar fullr af grjóti, svo að ekkert varð deilt þar sundr. Tóftin var enda öll að mestu uppfylt af

grjóti, og að eins grjótlaust lítið bil í miðjunni, rétt í kringum steinana, þó einkum milli steinanna og aflsins, eða þverhleðslu þeirrar, er áðr er um getið. Útnorðrgafl tóftarinnar var og mjög svo innhlaupinn og tóftin þar í endanum full af grjóti, enn allar ytri hleðslur tóftarinnar alt í kring vóru mjög lítið úr lagi gengnar. Steinana lét eg, eins og áðr segir, færa upp úr tóftinni, og standa þeir nú á grjótbálkinum landsunnanmegin í tóftinni, svo sem á innanverðum aflinum, í líkri afstöðu hvor frá öðrum, eins og þeir stóðu í tóftinni, og eins og þeir hafa upphaflega staðið, og eru þeir þar til sýnis.

Að endingu skal eg geta þess, að tóft þessi er ein af hinum allra fornlegustu, sem eg hefi nokkurn tíma rannsakað. Enn fremr skal þess getið, að langs með þeirri hlið tóftarinnar, sem frá ánni snýr, virðist hafa verið hlaðið grjótræsi, því að steinaraðirnar sjást ljóslega. Þetta mun hafa verið gert til þess, að ekki hlypi vatn í tóftina úr brekkunum fyrir ofan.

Í máldögum Vilkins og Gísla er Hagakirkja talin að eiga skóg í Vatnsdal í Ámótum, og enn í dag er henni eignaðr skógrinn í Smiðjukleifum og niðr með Þingmanna-á að norðanverðu. Er þar í Vatnsdal einhvert hið víðlendasta og fegrsta skóglendi, sem eg hefi séð.

## Hoftóft í Hvammi,

þar sem Þorkell Súrsson bjó síðast.

(7. ágúst).

Hvammr er þrjár langar bæjarleiðir út frá Brjánslæk. Þessi jörð er falleg og sljettlendi mikið alt til sjávar, alt grasi vaxið. Bær stóð áðr uppi undir hlíðinni, enn hefir nú nýlega verið færðr neðar sökum skriðu, sem hljóp á bæinn. Svo sem 2—300 faðma inn frá hinum gamla bæ er tóft nokkur fornleg og niðrsokkin, sem enn í dag er kölluð *hoftóft*. Hún er kringlótt og snúa dyr í útsuðr niðr að sjónum. Ofan í tóftina hafði hlaupið skriða, enn þó ekki allmikil, og var því ilt að koma hér við nokkurri verulegri rannsókn, enn þó sást fyrir allri tóftinni. Hún er um 29—30 fet í þvermál. Þessa tóft lét eg rannsaka með grefti. Hleðslurnar að innanverðu vóru úr grjóti á þeim stöðum, er eg gat prófað, enn að utan virðist minna grjót verið hafa. Gólf tóftarinnar kannaði eg og lét þar grafa 3 grafir alt ofan í möl. Þær vóru á stærð 3—5 fet á hinn lengra veg, enn á dýpt $1^1/_2$—2 álnir. Í tóft þessari fann eg í öllum gröfunum

bæði svarta kola-ösku og rauða eða móleita ösku, enn alls ekki neins konar gólfskán, hvorki eftir pening eða undanlás af heyi eða neinu slíku.

Eg verð því að álíta, að samkvæmt þeim hoftóftum, er eg hefi áðr rannsakað, sé tóft þessi, eins og nafnið bendir á, *hoftóft*, enda er það lítt hugsanlegt, að slíkt nafn festist við nokkura tóft, sem hefði verið til annars höfð, og borið annað nafn áðr. Tóft þessi virðist vera nokkurs konar *hörgr*.

## Á Vaðli.

(7. ágúst).

Eg fór út að Vaðli þenna sama dag. Bær þessi er eina bæjarleið fyrir utan Hvamm og stendr að austanverðu við Hagavaðal uppi undir fjalli. Í öllum sögum Gísla Súrssonar segir, að Gísli hafi verið á Vaðli í jarðhúsi, og að annar jarðhúsmunninn hafi verið í eldhúsi, enn hinn við ána; þó gerir önnur sagan frá þessu nokkura undantekningu, sem síðar skal getið. Á Vaðli hagar nú þannig til, að út frá bænum er slétt flöt, sem myndar hól að utanverðu, og er brekka af honum alt niðr undir ána (Vaðilsá). Þessi hóll heitir Þinghóll. Alt frá bænum og eftir flötinni og út á hólinn, og niðr eftir brekkunni að ánni, liggr garðr allmikill, þráðbeinn. Hann er hryggmyndaðr, breiðr og allglöggr. Frá bænum og alt út á hólbarðið eru rúmir 40 faðmar, og víst einir 10 faðmar niðr brekkuna eða meira. Er þannig allr garðrinn á að gizka rúmir 50 faðmar. Undir þessum garði hafa menn haldið, að hið umtalaða jarðhús lægi. Til að prófa, hvort slíkt gæti átt sér stað, lét eg grafa þvert í gegnum garðinn inn á hólnum. Við grófum langt ofan fyrir rætr garðsins, vel 2 álnir á dýpt, ofan í beinharða möl. Fundum þar ekki nokkur kennimerki til nokkurs slíks, nema hinn sama jarðveg og möl, sem bóndi þar sagði að væri annarstaðar í túninu á sömu dýpt. Þetta gerði eg, jafnvel þótt eg þættist vita fyrir fram, að hér væri ekkert jarðhús að finna á slíkum óravegi, með því að þetta kostaði lítið ómak, og svo til að taka af öll tvímæli um þetta mál. Eg skal ekki frekar geta hér, hvernig á orðum sögunnar stendr um þetta jarðhús, nema ef svo væri, að Þorgerðr, móðir Gísla, hafi búið í Haga eins og önnur sagan segir á einum stað, með því að í Haga stendr mjög líkt á, að nær ánni (Hagaá) að innanverðu er hóll og túnbrekka niðr. Þar á eru miklar fornar tóftir, niðrsokknar og óglöggvar, enda hefir þar nýlega

verið bygð hlaða. Hér eru munnmæli um, að bær Gísla hafi staðið á hólnum. Það hefði vel getað verið grafið jarðhús út úr hólnum, því þaðan er örskamt niðr að ánni. Enn á hinu áðr umtalaða svæði á Vaðli er það óhugsandi, þegar gætt er vegalengdarinnar. Að vísu sjást nú engin merki til þessa jarðhúss í Haga frá hólnum til árinnar, enn sé þetta ekki þannig, þá er þetta hinn eini staðr í sögu Gísla Súrssonar, sem ekki verðr ráðið fram úr af orðum einhverra hinna þriggja sagna, og hlýtr hér að vera eitthvað aflagað eða aukið inn í af síðari afritunum, og þarf eigi mikið að vera, enda eigi ómögulegt að sýna, hvað vera kynni.

Eg fór út að Haga og skoðaði mig þar vel um, enn fann þar ekki forn kennimerki, sem á verðr byggt, nema niðr undan bænum þar í mýrunum heitir enn í dag »Gestsfjós«. Það eru 2 tóftir ekki allmiklar, að því er sýnist, með því að þær eru mjög niðrsokknar. Hafi þannig verið, hefir garðr hlotið að liggja ofan að fjósunum eða brú, með því þar eru sökkvandi fen og mýrar, þótt þess sjáist nú ekki nein veruleg merki. Meira get eg ekki þar um sagt.

## Flókatóftir.

(8.—10. ágúst).

Fyrir innan svo kallaða Brjánslækjará, sem rennr niðr með túninu á Brjánslæk að innanverðu, gengr fram í sjóinn dálítill klettahöfði fallegr. Inn af honum myndast fögr vík, með því að klettatangi gengr fram að norðanverðu. Upp af vík þessari og alt umhverfis hana eru eggsléttar og beinharðar grundir, enn í suðvestr upp af grundinni er klettahæð mikil. Svo sem mitt á milli sjávarmálsins og hennar er tóft (*1.*) afar mikil og fornleg, með ákaflega digrum og útflöttum veggjum. Hún er 52—53 fet á lengd, utanmáls. Tóftin skiftist í tvent með millivegg, sem engar dyr eru á, og er syðri hlutinn 30 fet á miðjan millivegginn, enn sá nyrðri 23 fet. Tvennar dyr hafa auðsjáanlega verið á tóftinni út úr þeim hliðvegg, sem að sjónum snýr, og eru þær sín hvorum megin við millivegginn. Breidd tóftarinnar er 33 fet. Hvað þessi tóft hefir verið, er með engu móti hægt á að gizka, með því að hún hefir ekkert sérstakt nafn enn helzt til er hún fornleg, sem áðr er sagt. Í miðjum norðrhluta tóftarinnar eru eins og upp hækkaðar þúfur, enn hvort hér hefr verið bygðr síðar einhver kumbaldi eða þetta hefir sprungið frá aðal-veggnum

verðr ekki sagt með vissu. Litlu utar og ofar enn hin áðr nefnda tóft og beint upp af klettahöfðanum er tópt (*2.*), sem snýr í norðr og suðr. Hún er 41 fet á lengd, enn um 18 fet á breidd, að því er mælt verðr. Dyr eru út úr nyrðri gafli tóftarinnar, enn sést þó ekki fyrir neinum kömpum, því að líkara er að hún sé opin í endann. Upp í eystra hliðvegg á þessari tóft er önnur tóft (*3.*) og liggr hún svo sem á ská upp í hliðvegginn. Hún er um 27 fet á lengd. Breidd tóftarinnar verðr eigi með vísu mæld, með því að veggr hennar hinn vestri hefir fallið saman við vegg hinnar tóftarinnar (2.), og er þannig eins og upphækkaðr grasgeiri milli tóftanna. Í báðum þessum tóftum 2. og 3. sést glögglega fyrir grjóthleðslu að innan. Lögun beggja tóftanna er að kalla má hin sama. Þær eru báðar mjög fornlegar og útflattar. Mitt á milli hinna síðasttöldu tófta og klettahöfðans, þar á grundinni, um 7 faðma frá sjávarmáli, er lítil tóftarmynd (*4.*), er virðist hafa verið nær ferskeytt í lögun. Hún er ákaflega niðrsokkin og útflött, og er um 19 fet á hinn lengra veg, utanmáls, en 16 fet á hinn. Enn eg vil taka það hér fram að þetta verðr eigi mælt með neinni fullri vísu, svo að ekki geti nokkuru skakkað, þar sem veggirnir sumstaðar að utanverðu eru ekki deildir frá sléttunni í kring. Ef nokkuð mætti um dyr tala, þá virðast þær hafa vitað í norðr við austrvegginn, enda ekki ómögulegt, að hann hafi náð nokkuð fram fyrir dyrnar, svo sem eins og skjólkampr. Enn þetta er svo óglögt, að það verðr ekki sagt með vissu, því að veggrinn verðr ekki greindr frá grundinni. Bæði í suðrhliðvegg og vestrhliðvegg eru lægðir, sem vel gætu hafa verið dyr, enn um það verðr ekkert sagt. Meira verðr ekki um hana ákveðið að sinni.

Beint upp af miðri víkinni, um 24 faðma frá flæðarmáli, innar eða norðar enn allar hinar áður töldu tóftir, er tóft (*5.*) ákaflega mikil og fornleg. Hún snýr beint ofan að sjónum og nær alt upp að hinni áðrtöldu klettahæð innanverðri. Tóftin er nú, að því er mælt verðr, 73 fet á lengd, innanmáls, þegar með er talið það, sem eg hygg þann enda tóftarinnar vera innhlaupinn, sem snýr upp að klettahæðinni, og geri eg ráð fyrir að gaflinn sé hlaupinn inn um 6 fet, og er það sannarlega ekki of mikið, þegar um snarbratta brekku er að ræða, Tóftin er opin í þann endann, sem að sjónum snýr, og smá lækka veggjaendarnir, þegar fram dregr, unz þeir verða ekki lengr deildir frá grundinni. Nyrðri veggr tóftarinnar er svo lágr og niðrsokkinn, sem mest má verða, enn sést þó glögt fyrir honum að

innan þannig, að öll þessi tóft sýnist hafa verið niðrgrafin, og í þeim vegg sést ekki fyrir neinum steini upp úr. Þar á móti er syðri veggr tóftarinnar miklu hærri, hryggmyndaðr og digr ákaflega, svo að þegar mælt er þvert yfir hann, er hann 15 fet. Ofan eftir öllum þessum vegg miðjum eða hrygg hans sést fyrir miklu grjóti. Fyrir sunnan þessa tóft sýnist hafa verið önnur tóft (*6.*), og þá þessi mikli veggr hliðveggr undir báðum tóftunum 5 og 6. Þessi tóft (6) sýnist ekki hafa náð eins langt upp undir grjóthæðina eins og hin (5) með því að endi tóftarinnar (6) eða gaflinn, sem er ákaflega fyrirferðarmikill, virðist hafa verið frá laus frá klettahæðinni. Hvað hinum syðra hliðvegg þessarar tóftar (6) viðvíkr, þá er hann orðinn mjög ó-glöggr, og alla vega úr lagi genginn, með því að mjög mikil og löng stekkjartóft hefir á síðari tímum verið bygð ofan í hliðvegg þessarar tóftar (6), eða nokkurs hluta hans, og efni í stekkjartóftina, bæði grjót og jörð, hefir verið tekið úr þessum hliðvegg og enda umrótað hinu áðrtalda gaflhlaði, og meira að segja mætti ætla, að rofið hafi verið neðan af hinum áðrtalda sameiginlega millivegg tóftanna 5 og 6. Enn eitt er sjáanlegt, að efnið í þessa stekkjartóft hefir verið tekið beggja vegna við hana sitt upp í hvorn hliðvegg og sjást glögt merki þess beggja vegna við tóftina. Það er nokkuð, sem engar getur þarf að að leiða, því að þetta er það, sem alment tíðkast, þegar tóftir eru bygðar, og jarðvegr er rétt við hendina, enda er þessi stekkjartóft mjög há að veggjum og öll hlaðin innan með grjóti. Eg skal geta þess enn fremr, að undir þessari stekkjartóft sýnist vera einhver forn upphækkun. Þessi síðartalda tóft (6) hefir að minsta kosti verið 55 fet á lengd, utanmáls, eftir því sem hún kemr nú fyrir sjónir. Enn sé talin með upphækkunin, sem sýnist vera undir stekkjartóftinni og með því að milliveggr tóftanna 5 og 6 hafi verið styttr, er tekið var efnið í stekkjartóftina, þá yrði hin syðri tóftin (6) um 80 fet á lengd. Til þess að gefa mönnum hugmynd um breidd á hinni nyrðri tóptinni (5), þá er hún um 26 fet af miðjum hliðvegg á miðjan hliðvegg, enn breiddin á hinni syðri tóftinni (6) verðr með engri vísu mæld sökum hinnar áðr töldu stekkjartóftar.

Eg hefi þá fundið hér í alls 6 tóftir, og eru þær allar kallaðar einu nafni enn í dag »Flókatóftir», og eru þannig kendar við Hrafna-Flóka. Það er því undarlegt, að dr. Kålund segir, að þessar tóftir sé 4—5, því að hafi hann komið hér, sem þó alls ekki sést af lýsingu hans, þá er þó líklegt, að hann hafi gefið

þann gaum þessum tóftum, að hann hafi að minsta kosti talið þær. Enn hafi hann þar á móti ekki komið hér, enn hafi orðið að hafa þetta annaðhvort eftir sóknarlýsingu eða eftir öðrum mönnum, þá getr manninum verið meiri vorkunn, enn um þetta sýnist mér, að hann hefði þó átt að geta.

Allar þessar 6 áðrtöldu tóftir rannsakaði eg með grefti, þ. e. a. s. gólf tóftanna, því að ekki vóru nein tiltök að grafa þær út gersamlega. Það er margra daga verk með nægum mannafla, enn ómögulegt að fá menn um þenna tíma árs til slíks stórvirkis. Ofan á stóru tóftina (1), sem skiftist í tvent, gróf eg allmiklar grafir, sína í hvora tóftina. Þar fann eg, að því mér virtist í syðri hluta tóftarinnar, vott af móleitri og svartleitri ösku og kola-lagi, enn aftr í nyrðri hluta tóftarinnar fann eg ekkert, sem eg gæti verulega talið. Í litlu tóftina, ferhyrndu (4) gróf eg stóra gröf og djúpa alt niðr í möl. Þar fann eg mikið af svartleitri og mótleitri ösku og töluvert af *viðarkolabútum* og ögnum, og hefi eg nokkuð af þessu til sýnis. Gröfin var á dýpt um 1¼ alin, og var þetta, sem eg fann í gröfinni, alt niðr við mölina. Þar að auki fann eg þar *surtarbrandsstykki* allmikið. Það er flatt og um 3 þumlunga á breidd. Þess skal getið hér, að Brjánslækjará flytur oft með sér til sjávar allstór stykki af surtarbrandi úr hinu svo kallaða Surtarbrandsgili, er fellr í ána. Hér að auki vóru og í tóftinni innan um kolamolana skeljahýði, sem undarlega hafði geymzt þar.

Þá koma tóftirnar 2 og 3, eg gróf sína gröfina ofan í mitt gólfið á hvorri, alt í möl ofan. Þar fann eg engan vott af nokkurum hlut, sem benti á, að þar hefði nokkur lifandi skepna haft verustað.

Nú kemr þá afarstóra tóftin (5.) Ofan í hana gróf eg 2 grafir með miklu millibili ofan í miðja tóftina. Það er sama að segja um þessa tóft og um tóftirnar 2 og 3, og þar fann eg engan vott af neinu, nema hið upprunalega jarðefni og gerði eg mér þó far um að leita þar í moldinni og mölinni. Að síðustu kemr hin afarstóra tóft 6., sem liggr hinni síðasttöldu samhliða. Þar gróf eg 3 stórar grafir, allar ofan í möl og leitaði grandgæfilega. Þar fann eg fyrst að telja *brýni* ljósleitt. Það er brýnt ferstrent, digrast í miðjunni enn mjótt til beggja enda, þó einkanlega í annan; er þó brotið af báðum endum. Brýnið er 4½ þumlungr á lengd og er bæði mjúkt og bítr vel af því, eins og venja er til um brýni, sem í forn-haugum finnast. Þar fann eg *ryðbút* flatan með áföstu tré, sem er eins og nagli standi í gegnum, sem er allr orðinn ummyndaðr að ryði. Þetta lítr út eins

og það kynni að hafa verið ró með hnoði. Annan *ryðbút* fann eg þar með sama ásigkomulagi, og heldr minni, flatan með áföstu tré við; og svo þriðja *ryðbútinn*, sem er allra minstr, skálmyndaðr öðrum megin; ekki sér á honum vott af tré og svo 2 örsmáa *ryðbúta*. Á einum stað í tóftinni fann eg hrúgu af fúnum *skeljabrotum*, og örsmáa *flís* auðsjáanlega *af beini*, sem var svo grautfúið, að það datt alt í sundr. Þá fann eg og í tóftinni allstaðar mikið af *viðarkola-ösku* og smáum viðarkolabútum. Enn fremr fann eg flís af svartleitu tré, smágervu, sem er orðið stökt og ummyndað; eg held að það sé varla surtarbrandr. Öll merki á þessu eru svo fornleg sem það væri frá 10. öld eða fyrri hluta hennar, enn 10 ár eða meir gera ekki svo mikið til, þegar um langan tíma er að ræða.

Tóftir þessar eru nú, eins og áðr er sagt, allar kallaðar einu nafni «Flóka-tóftir», og fornleg merki bera þær yfir höfuð að tala. Eg hefi heldr eigi til þessa fengið neina vitneskju um, að þar hafi verið bygð á síðari tímum nein önnur bygging, enn hin áðrtalda stekkjartóft. Ef maðr mætti leyfa sér að gera hér um nokkurar getgátur, *hvað* tóftir þessar hafi verið, þá er það mín ætlan að hin síðartalda tóft (6) hafi verið sú *skálatóft*, sem Landnáma ljósum orðum nefnir, enn nú er orðin aflöguð á þann hátt, sem áðr segir, og sannanir fyrir því eru þeir hlutir, sem hér fundust. Því að það er öllum ljóst, að hér hafa eldar verið hafðir. Verulega gólfskán eða önnur glögg og stór kennimerki getr hér ekki verið um að ræða eftir svo afarlangan tíma, þar sem þetta er hin elzta tóft á landinu, að frá teknu, ef leifar kynnu að finnast af húsi Garðars í Húsavík. Hvað *tóftinni 5.* viðvíkr, sem er þessari samhliða, þá liggr það næst og í augum uppi, að þar hefir *hrófið* verið. Á það bendir glögglega fyrst afarstærð tóftarinnar, þar næst að hún lítr út sem naust eða hróf, og að endingu það, að hér fanst ekki neinn vottr um nokkurn skapaðan hlut, nema hið upprunalega jarðarefni. Þá kemr hið þriðja, sem Landnáma nefnir, nfl, *seiðrinn*. Það er bágt að ákveða, hvað hún meinar. Enn skyldi nokkurs um það til geta, þá er líklegt, að það sé *ferhyrnda litla tóftin 6*. Eitt er sjáanlegt, að tóft þessi hefir engin skepnutóft getað verið, því að þar hefir ekki getað komizt inn í nema fáeinar kindr, enda fundust þar engar taðleifar, enn þvert á móti eldmerki, þar sem þar fundust kol og aska, sem áðr segir. Þá koma tóftirnar 2 og 3. Það er bágt að segja, til hvers þær hafi verið hafðar, enn skyldi nokkurs til geta, þá líta þær út fyrir að hafa verið *bátanaust*

Hrafna-Flóka, fyrir stærri bát og minni. Svo mikið má segja, að nú líta þær út eins og ákaflega fornt naust, og það er að ráða af Landnámu, þar sem um fiskveiðar þeirra Flóka er talað, að hann hafi róið á fjörðum og þá sjálfsagt á smábátum. Þar sem nú Flóki ætlaði að byggja landið, hefir hann eigi verið all-mannfár, og maðr veit af öðrum sögum, að menn höfðu margt vígra manna á skipi, t. d. 20—40. Hefði nú Flóki ekki haft nema 1 bát, stóran eftirbát, eins og allir höfðu, þá þurfti hann ekki alla menn sína út á þann bát, enn gat látið nokkura afla heyjanna, — nema hann hafi haft því fleira fé, sem ekki er þó líklegt —. Flóki hefir því að líkindum haft 2 báta, annan minni, er hann hafði upp á skipinu, sbr. Egilssögu. Hann hefir því stundað fiskveiðar af báðum bátunum, enda þurft þess, því að ekki hafa verið byrgðir af matföngum. Þetta sýna og tóftirnar, sem áðr er sagt, því að önnur er miklu meiri enn önnur. Það er og sennilegt, að naustin liggi svo langt frá sjó og upp á dálitlum bala nær ytri víkinni, til þess að bátarnir væru þar til taks, bæði um haustið og vetrinn, þar sem ekki leggr snjó til muna, og til þess að verja þá fyrir ís og móð, sem ávalt liggr mjög við sjóinn. Að öðru leyti liggja þessar tóftir ekki lengra frá sjó enn bæði *hrófið* og *skálinn*. Þá kemr að síðustu breiða tvískifta tóftin 1. Um hana get eg enga sennilega getgátu gert. Eftir þeim kennimerkjum, sem eg fann í henni, lítr hún ekki út fyrir að hafa verið skepnutóft, jafnvel þótt maðr verði að álíta, að Flóki hafi orðið að hafa eitthvert skýli yfir skepnur sínar, þótt Landnáma nefni það ekki, því að á Brjánslæk hagar svo til, að alt liggr þar undir fönn og klaka á vetrum. Og í Landnámu er hér talað um harðan vetr eða vor, er Flóki var hér; hlýtur hann, maðr, sem bjóst frá Hörðalandi í Noregi sunnarlega, að hafa búizt við því, að hann þyrfti skýli yfir skepnur sínar, er hann var kominn hingað til hins kalda og norðlæga lands. Enn eitt skal eg taka fram, að þessi tóft sýnist jafnvel ekki vera eins ákaflega fornleg og hinar, hafi ekkert verið við henni rótað á síðari tímum. Að öðru leyti tek eg hér það aftr fram, að milliveggr digr er í tóftinni, sýnast engar dyr hafa verið á honum, enn báðar dyrnar þar á móti út úr hliðveggnum. Tóftin er því ekki allólík því sem sumar hoftóftir hafa reynzt, er eg þó ekki frekar fullyrði og skal láta hvern mann ráða meiningu sinni um þessa tóft. Hið sama vil eg og taka fram um allar þessar tóftir, að eg að svo stöddu staðhæfi ekki neitt um, *hvað* hver þeirra hafi verið. Enn að ákaflega fornar tóftir hafi lengi geymzt

hér á landi, má færa mörg ljós rök að af sögum vorum. Hér er og þess að gæta, að undir «Flókatóftum» er hörð vallgróin grund og beinhörð möl undir. Það er því skiljanlegt, að tóftir geta afarlengi geymzt, þar sem jarðvegr er þannig, hafi ekkert verið við hreyft. Að endingu skal eg geta þess, að séra Þorvaldr prestr á Brjánslæk var með mér í allri þessari rannsókn, og veitti mér sérstakt lið, og sama er að segja um Davíð Scheving lækni.

Spölkorn fyrir innan Flókatóftir skerst inn úr Vatnsfirði vík löng og mjó, sem heitir enn í dag »Þrælavogr«. Þar er sérlega góð lending, enn ómögulegt að hafa þar uppsátr, því að klettar eru á 3 vegu. Það er sjáanlegt, að Flóki hefir valið til vetrsetu hinn fegrsta stað, sem til er í Brjánslækjarlandi við sjóinn, og var slíkt venja fornmanna.

Út á Melunum fyrir utan Brjánslæk er girðing nokkur, sem kölluð er »Þrælatröð». Hún er ferhyrnd, og eru veggirnir hlaðnir beinir úr stóru grjóti. Veggirnir eru nú um 10—12 fet á þykt, enn niðrsokknir og standa lítið upp úr jarðveginum, enn sjást þó glögglega allstaðar. Girðingin er um 20 faðma á annan veg en á 17 faðma á hinn. Ómögulegt er að segja, til hvers þetta stórkostlega mannvirki hefir verið haft, því að nú sjást engar dyr á girðingunni. Enn í útsuðrhorni hennar er eins og lítið grjóthlað, og víst er það, að girðingin er mjög svo fornleg. Heimar nær túninu er lækjarfarvegr sá sem kallaðr er Brjánslækr og bærinn dregr nafn af. Hann er nú þur og mjög svo grunnr að ofan, enn dýpkar, er neðar dregr. Á vetrna er vatn í honum, og rennr hann úr svo kölluðum »Gormi» — mýri — þar fyrir ofan.

## Þorskafjarðarþing.

13. ágúst.

Þorskafjörðr gengr inn fyrir vestan og norðan Reykjanes sem kunnugt er. Hann er langr og mjór fjörðr, um þrjár vikur á lengd, eða meir. Botninn á firðinum snýr nær í austnorðr. Upp af fjarðarbotninum er sléttlendi mikið og renna þar tvær ár ofan í fjörðinn, Þorskafjarðará að norðanverðu, enn Músará að landsunnanverðu. Kollabúðir standa og þeim megin skamt upp frá fjarðarbotninum, eini bærinn sem þar er. Hinn forni þingstaðr, eða þær búðatóftir, sem nú sjást, hefir verið upp frá

landsuðrhorni fjarðarins, þar inn með brekkunum, milli þeirra og Músarár, eins og hún rennr nú.

Svo sem 100 faðma fyrir innan fjarðarvikið, þar á dálítilli hæð, er yzta búðin sem nú sést á Þorskafjarðarþingi. Hún er fornleg mjög, enn þó greinileg, og hin glöggvasta, sem þar sést. Búðin snýr út og inn, austr og vestr, og er 24 fet á lengd, enn 21—22 fet á breidd. Hún er öll vaxin lyngi og grasi, og í bæði vestr-gaflhlaði og norðr-hliðvegg mótar fyrir stórum undirstöðusteinum. Dyr hafa verið út úr vestrhorni búðarinnar, rétt við gaflhlaðið á þeim hliðvegg sem að ánni veit. Veggir eru mjög útflattir. Þessi búð er Þorkelsbúð eftir sögunni (*1.*) — 24 föðmum innar og neðar á eyrinni er tóftin, sem bygð hefir verið fyrir skýli á Kollabúðarfundum; þar rétt fyrir neðan, nær ánni, er og nýr kumbaldi eða tóft, sem auðsjáanlega hefir verið bygðr ofan á endann á fornri búð, og hefir þá verið rifið grjót upp úr ytri hlut búðarinnar. Hún virðist hafa verið 42 fet á lengd og 24—25 fet á breidd, að því er mælt verðr. Efri hliðin er mjög óglögg, því að meira er rifið þar upp, enn neðri brún veggjarins, er að ánni veit, er glögg; dyr sjást ekki af því áðrtalda umróti; búðin snýr út og inn eins og hin. Þetta hefi eg heyrt, er eg var ungr, að væri búð Gests Oddleifssonar (*2.*) Svo sem 16 —17 föðmum neðar og utar er og upphækkun nokkur, búð (*3*), sem er aflöguð og brotin af vatnagangi og grjóti, enn þar á milli sést nokkurn veginn glögt fyrir vestri hliðvegg; hinn er að mestu afbrotinn, nema partr að sunnanverðu. Þó mun þetta verið hafa búð, því að þar sést fyrir hleðslusteinum í neðra hliðveggnum, og hún snýr eins og hinar. Búðin verðr ekki mæld, því að af báðum endum er brotið, sýnist þó ekki verið hafa alllítil. Svo sem 28 föðmum þar beint innar er upphækkun nokkur komin í þýfi, um 5—6 faðmar á annan veg, enn 3—4 á hinn. Á þessu sýnist vera mannaverk (*4.*); þó er það varla búð. Mætti geta til, að væri haugr Þorkels Súrssonar(?) Beint innar frá þessu mannvirki um 22 faðma upp með ánni eru 2 búðir, er liggja samhliða, snúa út og inn, og er mjótt sund millum þeirra. Þær ganga nokkuð á víxl, þannig að gaflarnir standa ekki jafnlangt fram og upp. Þær eru allar orðnar stórþýfðar, enn veggi má þó deila, og er það mikil upphækkun í heild sinni. Sú sem er nær ánni (*5*) er 50 fet á lengd og 23 fet á breidd; dyr hafa sjáanlega verið við vestra gaflhlað á nyrðra hliðvegg búðarinnar. Syðri búðin, sem er nær brekkunni, er 72 fet á lengd og 23 fet á breidd; dyr sýnast hafa verið á hinum nyrðra hlið-

vegg við vestra gaflhlað, rétt við gaflinn á hinni tóftinni. Við vestra gaflhlað sýnist hafa verið sem afhús, eða þannig að þar í milli og tóftarinnar er digrt gaflhlað. Þetta afhús er talið með í lengd tóftarinnar, enn ekki verðr séð hvar dyr hafa á því verið, því að alt er hér þýft orðið. Tóftirnar eru mjög fornlegar. 6—7 faðma ofar, beint með ánni, er ákaflega stór búð einstök (7), stærst af þessum tóftum, 75 fet á lengd, enn 25 fet á breidd; hún er há og greinileg, enn komin í þýfi; dyr hafa verið út úr hinum nyrðra hliðvegg við vestra gaflhlað. Þessi tóft hygg eg sé búð Gests Oddleifssonar, og er það líklegra enn að það sé litla tóftin, sem áðr er getið, því að Gestr var mestr höfðingi í Breiðafirði vestanfram. 11—12 föðmum ofar með ánni er lítil búð (8), sem snýr líkt og hinar; hún er 36 fet á lengd, enn 21—22 fet á breidd; dyr sýnast hafa verið á norðrhliðvegg rétt við austr-gaflhlað. Þessi tóft hygg eg sé búð Hallbjarnar; það sést á sögunni, að hún var ofarlega á þingstaðnum eða fyrir ofan aðrar búðir, enn þessi tóft er hér hin efsta.

Alls hefi eg þá fundið hér sjö fornar búðir, og enn fremr eitthvert mannvirki (nr. 4), enn fleiri búðir hafa hér líklega verið, því að þannig er farið, að áin, sem hér rennr og heitir Músará, hefir óefað brotið nokkurar tóftir; áðr rann hún norðr með brekkunni fyrir neðan túnið, enn nú rennr hún í vestr og hefir spilt öllum þingstaðnum. Hér hafa verið sléttar graseyrar alt norðr að Þorskafjarðará, og í hana hefir Músará runnið áðr, enn nú rennr hún í fjörðinn. Hér hefir verið mjög fallegr þingstaðr á eyrum þessum.

Lítil eyri er að sunnanverðu við fjörðinn um 160 faðma fyrir utan búð Þorkels, sem er yzta búðin; það er sjáanlegt, að við hana hefir Þorkell lent; það er rétt nefnt Fjarðarhorn utan til við eyrina; þangað flýtr nú litlum bát um smástraumsflæði, enn um stórstraumsflæði fellr alt upp í gras, enn þar hefir verið dýpra í fornöld, því að tvær ár, sem hér renna í fjörðinn, hafa hlotið að fylla upp og grynna í svo langan tíma, svo að þá hefir flotið þar stærri skipum. Utan til á þessari eyri eru tveir steinar, og er sá neðri lágr og flatr ofan, og svo mátulegr, að hann býðr manni til að sitja á sér; er undarlega vel frá þessu sagt í sögunni. Héðan af eyrinni blasir og alt við frá búð Þorkels, sem Börkr var að tjalda, og kemr þetta mæta vel heim. Fyrir utan eyrina taka við klettar með básum; þar eða utar hefir Þorkell ekki lent.

Enginn veit nú hvar *Hjaltdælalaut* er, enn líklegast þætti

mér, að það væri graslaut sú, sem er fyrir ofan og innan búðirnar þar í hálendinu. Fyrri gátu ekki Hjaltasynir sézt, er þeir komu af fjallinu, svo að menn sæi glögt skart þeirra, eða það er lautin í fjallið fram og upp frá Kollabúðum.

*Hallsteinsnes* er fyrir norðan Þorskafjörð í utanverðum firði, bærinn stendr hátt framan til upp af nesinu; skamt fyrir innan bæinn er *Grenitrésnes*. *Teigsskógr* heitir þar fyrir innan, inn með hlíðinni, millum og Grafar, ekki all-langt svæði. Það kemr því vel heim, að Gestr hafi slept þangað Vésteinssonum, sem stendr í hinni síðari sögu Gísla Súrssonar (Kaupmh. 1849, bls. 140).

## Bólstaðr,

þar sem Arnkell goði bjó.

(28. ágúst).

Alt á milli Úlfarsfells og Vaðilshöfða er sléttlendi mikið; það eru töðugresismóar og vall-lendi. Þetta hefir því verið hið fallegasta land, og er enn í dag. Arnkelshaugr stendr, sem eg áðr hefi sagt og rannsakað, niðr við sjóinn fyrir neðan þetta sléttlendi, enn beint upp frá haugnum hefir Bólstaðr staðið um 70 faðma. Enn þessar tóftarústir eru orðnar svo ákaflega fornlegar, að hér er mjög ilt að átta sig. Þó sést þar fyrir upphækkunum eða tóftarmyndun; tóftin hefir snúið upp og ofan, þ. e. suðr og norðr. Þessi tóft hefir verið 59—60 fet á lengd, enn milliveggr auðsjáanlega yfir neðri hlutann, og hefir þá neðri tóftin verið 27—28 fet á miðjan vegg, enn hin 31—32 fet. Breiddin sýnist hafa verið 24—25 fet. Út úr vestri vegg neðri tóftarinnar sýnist hafa verið útbygging. Ekki verðr með vissu sagt, hvar dyr hafa verið, enn þó sýnist móta fyrir dyrum inn í útbygginguna. — 10 faðma beint upp undan þessari tóft er upphækkun, sem auðsjáanlega er mannvirki, enn þar verðr ekki tóftarlögun deild. Lengdin á þessari upphækkun er 92 fet, að því er mælt verðr, enn breiddin verðr með engu móti mæld; mætti ætla að hún hefði verið alt að 30 fet. Ofar á grundunum sést ekki votta fyrir neinum tóftum. — Þess skal getið, að Úlfarsfellsá rennr hér skamt fyrir innan, og frá henni inn að Vaðilshöfða er varla meira enn 100 faðmar, svo að orð Eyrb. eru rétt hermd um bústað Arnkels. Áin er lítil, og hefir mjög lítið spilt hér jarðvegi, enn samt getr verið að hún hafi numið einhverja tóft burt. Fyrir vestan ána eru nokkuð háþýfðir móar

og gæti þar verið hafa úthýsi. Annars verðr ekkert um það sagt með vissu. Á Bólstað þykir mér mjög fallegt og vinalegt, eins og víðar inni í Álftafirði. Þar eru og víða landkostir góðir; þannig er t. d. í Úlfarsfellshlíð, eins og Eyrb.s. tekr fram. Þar er kafgras víða og gott slægjuland. Þótt hlíðin sé snarbrött þegar út eftir dregr og klettar að ofan, eru þar varla neinar skriður.

Þegar komið er á Bólstað og horft yfir land það sem Arnkell hefir búið á meðan búið var á Úlfarsfelli og Örlygsstöðum, virðist land þetta næsta lítið fyrir slíkan mann, sem bæði var höfðingi og goði. Má þó vel skilja, hvernig á þessu hefir staðið, þótt sagan tali ekki um það. Hér vantaði beitland, og held eg því að Arnkell hafi haft Borgardal undir og hlíðina alla út undir Geirríðareyri, og svo alt inn að landamerkjum á Kársstöðum, sem eru á móti Vaðilshöfða. Það er mjög eðlilegt, að hann hafi fengið það land hjá Þórólfi föður sínum, enn hann aftr erft það eftir móður sína Geirríði. Þótt þetta sé tilgáta, er hún samt skilyrði fyrir því, að slíkr maðr sem Arnkell hafi getað búið á Bólstað.

## Þórólfs haugr bægifótar.

(29. ágúst).

Millum Úlfarsfells og Hrísafells gengr fram Þórsárdalr, fallegr dalr með sléttum graseyrum alt fram í botn báðum megin við ána Þórsá, sem rennr eftir miðjum dalnum. Vestan til undir Úlfarsfelli hefir bærinn Hvammr staðið, þar sem Þórólfr bægifótr bjó. Þetta hefir verið í fögrum hvammi rétt uppi undir hlíðinni, enn stekkrinn frá Hrísakoti hefir verið bygðr ofan á bæjarrústunum. Þar sjást því engar verulegar tóftir lengr, nema upphækkun undir stekknum, með því efnið í stekknum, sem er töluvert stór, hefir verið stungið upp og öllu umrótað. Þar að auki hafa jarðföll tvö grafið sig niðr norðan við tóftirnar. Fyrir sunnan stekkinn er lækjarfarvegr, sem líklega hefir verið bæjarlækrinn. Í Hvammi hefir verið mjög fallegt og skemtilegt að vera og næsta ólíkt því sem að búa við aftrgöngur. Hlíðin er öll með sléttum grasbreiðum undir og grasgeirar hátt upp í hlíð. Eg fór fram um allan Þórsárdal alt fram í botn, til að leita að Þórólfs haugi bægifótar. Loks fann eg hann á eggsléttri grund, sem er grasi vaxin fyrir austan ána, 24 faðma frá ánni. Þetta er framan til í miðjum dalnum. Þetta er upphækkun, sem er orðin að smáþýfi, enn þegar betr er aðgætt, sést hér glöggr vottr.

Þetta hefir verið allmikill haugr, aflangr eða sporöskjumyndaðr, og hefir hann verið um 35 fet á lengd, enn 20 fet á breidd, að því er mælt verðr. Fyrir grjóthleðslunum sést alt í kring þegar vel er aðgætt, og sumstaðar eru þær allglöggvar, einkum í suðrendanum. Þetta er að öllu leyti sem upprifinn haugr og lægst í miðjunni, og sést jafnvel fyrir börmunum í suðrlandsuðr-endanum, því að þetta snýr í norðr og suðr. Þar að auki sjást víða í kringum hauginn steinar niðrsokknir, eins og þeim hefði verið kastað út úr hauginum; einkanlega er þetta að norðanverðu, og þeim megin er töluvert smáþýfi. Það er því enginn efi á því, að þetta er haugr Þórólfs, sem sagan getr. Þetta er í einhverjum hinum fegrsta stað í dalnum. Rétt á móti haugnum upp undir hlíðinni heita *Þórshólar*, svo að alt er hér kent við *Þór*, dalrinn, áin og hólarnir. Austrhlíð af botni dalsins myndast af Úlfarsfellshálsi. Ekki verðr með vissu sagt, hvar Spágilsstaðir hafa verið, enn sagan segir, að þeir hafi verið í Þórsárdal; enn að vestanverðu við ána, litlu framar enn móti Hvammi, er upphækkun allmikil, sem komin er í stórkostlegt þýfi, og má vera, að þar séu leifar af bænum, því að þar sýnast mannaverk verið hafa. Þess skal getið, að þetta svæði, sem stekkrinn stendr á og þar sem Hvamms bærinn hefir staðið, er enn í dag kallað í Hvammi; þannig segja menn frá Hrísum, ef einhver skepna er yfir hjá stekknum: »hún er yfir í Hvammi«, svo að um bæinn getr enginn efi á leikið, enda sást þar fyrir garðlagi fyrir skömmu, sem nú er komið í aurskriðu. Mér sýndist jafnvel móta fyrir fornu garðlagi upp með bæjarlæknum, enn þetta var svo óglögt og niðrsokkið. Niðr frá stekknum nær ánni er upphækkun allmikil, komin í móa, sem sýnist hafa verið mannvirki og hafa þá verið einhver peningshús, t. d. var hentugt að hafa þar fjós nálægt ánni.

## Fleira í landnámi Þórólfs mostrarskeggs.

Svelgsárdalr er víðr dalr, sem gengr inn fyrir vestan Hrísafell millum og Drápuhlíðarfjalls. Á rennr eftir dalnum með djúpum farvegi neðan til, eða hálendi báðum megin og hvömmum, og heitir Svelgsá. Bær samnefndr stendr skamt fyrir vestan ána, rétt við þjóðveginn. Lítinn spotta fyrir utan Svelgsá rennr lítil á, eða lækr, sem heitir Hauksá, og nokkuð lengra út frá ánni, enn spottakorn fyrir neðan þjóðveginn, er bær, sem heitir Hólar. Það er því rétt að orði komizt í Eyrb. s., þar sem sagt er frá

drápi Hauks. Áskell hefir náð honum í götuskarðinu fyrir austan ána og vegið hann þar. Á einum stað við ána, rétt við götuna að ofanverðu, mótar fyrir lítilli upphækkun, sem er hæst í miðju, nokkurra feta á hvorn veg. Líklegt er, að þetta sé dys Hauks, enn það gat eg ekki rannsakað, því að eg hafði ekki tíma til þess. Þaðan liggr vegrinn, þegar fram hjá Hólum kemr, út á Vatnsháls, sem svo heitir enn í dag. Fyrir vestan hálsinn er Vatnsdalr, lítill dalr með vatni í. Þar einhversstaðar hafa Þórbeinisstaðir verið, enn bæjarstæðið hefir þó ekki með vissu fundizt. Dalrinn myndast af Drápuhlíðarfjalli að ofan, enn Seljafelli að norðanverðu. Norðan undan fellinu liggja Seljabrekkur, sem svo heita enn í dag. Þær eru skamt fyrir innan Drápuhlíð; þar er nógr skógr til kolgerðar enn í dag. — Eg skal geta þess hér, að þegar Arnkell eltir þrælana, mun vera misritað Oxnabrekkur fyrir *Seljabrekkur*, því að það er ólíklegt, að hann hafi elt þá alt ofan fyrir Vigrafjörð; þar heita Öxnabrekkur enn í dag. Þetta er langr vegr. Frá Drápuhlíð liggr vegrinn út að Gríshólsá og Bakká, sem áðr hétu einu nafni Laxár. Á milli Laxánna var réttin, sem talað er um í Eyrb., enn er eystri ánni var á öldinni sem leið veitt vestr fyrir hina gömlu rétt, var réttin færð upp undir Arnarhól, og þar stendr hún, enn bærinn Skjöldr mun standa þar sem hin forna rétt var. Fyrir utan Bakká hefjast »Skeið«, sem kölluð eru; það eru eggsléttir melar og ná alt út að Bakka (Kóngsbakka). Bakki stendr við sjó fram, kippkorn fyrir utan það er Hofsvogr skerst inn; frá bænum og ofan til sjávar er lítill spotti, og því hafa þeir tjaldað þar yfir Bergþóri, með því maðrinn var kominn að dauða. Um reið þeirra Steinþórs brott af Bakka inn eftir Skeiðum o. s. frv. er alveg rétt að orði komizt í Eyrb. — Skamt fyrir utan Bakka er Stafá, lítil á; hún er takmarkið að utanverðu í landnámi Þórólfs mostrarskeggs, enn Þórsá að innan. — Eg hefi þannig farið um alt landnám Þórólfs.

## Berserkjahraun.

(30. ágúst).

Skamma bæjarleið frá Stafá stendr bærinn Hraun (»undir Hrauni«), þar sem Víga-Styrr bjó. Bærinn stendr í dalverpi undir hálsi, er Hraunsháls heitir, að vestanverðu undir honum. Bærinn stendur á hæð nokkurri ofan til í túninu og hallar því móti

vestri. Fyrir vestan túnið liggr ákaflega mikið hraunbelti ofan úr fjallagígum og niðr alt til sjávar. Hraun þetta er ¼—½ míla á breidd, þar sem það er breiðast, og á aðra mílu(?) á lengd. Hraun þetta heitir Berserkjahraun, sem kunnugt er. Fyrir neðan túnið rennr lækr rétt við hraunið, sem heitir Hraunslækr. Á túnjaðrinum við lækinn er tóft mikil og fornleg; þó sést móta fyrir veggjaröðum. Tóftin er, eins og hún nú lítr út, 67 fet á lengd og 28 á breidd, að því er mælt verðr; enn hér er aðgætandi, að nyrðra gaflhlað tóftarinnar vantar, og líklega miklu meira, því að nýlega hefir verið sléttuð flöt fyrir norðan tóftina, sem er 7 faðmar á lengd. Tóftin getr jafnvel hafa verið þriðjungi lengri, enda mótar á hvorugri hlið hennar fyrir dyrum, og hafa þær því hlotið að vera í þeim hluta sem sléttaðr er. Þessi tóft virðist vera frá fornöld, og mætti vel vera, að hún væri skálatóft, og að hér hefði bærinn undir Hrauni fyrst staðið. Þá var sann-nefni að kalla bæinn »undir Hrauni«, enn nú stendr bærinn svo ofarlega, að það nafn virðist ekki eiga við. Uppi á brekkunni fyrir neðan bæinn sést fyrir ákaflega fornlegri tóft með mjög breiðum og útflöttum veggjum; hún snýr í austr og vestr, þvert á móti hinni; dyr munu hafa verið út úr gaflinum móti vestri. Þessi tóft hefir verið aflöguð, því að innan í hana hefir verið hlaðin löng og mjó kví, með þunnum veggjum; hinir útflöttu veggir standa langt út undan á alla vegu, og nyrðri kamprinn stendr óhaggaðr og sést þar fyrir kampsteinum, enn hinn eystri kampr er upp stunginn. Tóftin er 47 fet á lengd, enn á breidd, að því er mælt verðr, 21—22 fet. Það er ætlun mín, að þetta sé tóft af kirkju þeirri, er Styrr lét byggja undir Hrauni, enn enginn hefir tekið eftir þessari tóft áðr. Hitt þori eg að fullyrða, að eins megi sjá fyrir kirkjutóftum eins og þeim stórkostlegu og merkilegu mannvirkjum, sem hér eru eftir berserkina, sem brátt mun sagt verða. Tóftin stendr á einhverjum hinum fallegasta stað í túninu; hvergi annarstaðar sjást slík merki, enda snýr tóftin eins og kirkjur gera. Kirkjugarðr sést ekki, enda er alt hér sléttað á víðu svæði. Sem áðr er sagt, rennr lækr niðr með hraunjaðrinum, enn fyrir vestan lækinn, nokkuru ofar enn í móti bænum, er stór kriki inn í hraunið. Þetta er allmikið svæði, grasi vaxið flatlendi með smáþýfi og þykkum jarðvegi. Á þessu svæði er hið stórkostlega mannvirki, *gerðið berserkjanna*, er Styrr lét gera heima við bæinn, og sagan talar greinilega um. Merkilegast er, að enginn hefir tekið eftir gerði þessu, sem er svo stórkostlegt. Undir eins og eg kom að hrauninu fann eg gerðið, og skal nú lýsa því svo

nákvæmlega, sem mér er unt. Gerðið er nær ferskeytt, enn er þó á einn veginn myndað eftir hrauninu. Það er 57—58 faðma langt, enn á breidd 51—52 faðmar; enn veggir svo digrir sem mest má vera og furðulega glöggvir, þótt þeir sé ákaflega útflattir, þar sem þeir hafa verið bygðir úr hnausum og grjóti, enn sumstaðar standa þeir svo að segja óhreyfðir, þar sem þeir eru bygðir úr tómu hraungrjóti. Sú hliðin, er að bænum veit, eða í norðr, er bygð bæði úr grjóti og torfi; grjótið hefir verið fjarska mikið og stendr sumstaðar upp úr veggjunum og víða eru hleðslur lítið eða ekki raskaðar. Á þessum hluta eru veggirnir víða um 11—12 fet á þykt, og á miðri þessari hlið, er að bænum veit, eru ákaflega breiðar dyr. Eystri hliðin liggr alt upp að hrauninu; hún er ger á líkan hátt úr grjóti og torfi, og stendr grjóthryggrinn víða upp úr miðjum garðinum. Þessi hlið er þó ekki fult svo bein sem hin, og má vera, að veggirnir sé hlaupnir á víxl út eða inn. Hér er í austr-landssuðrhorni gerðisins grjóttóft ákaflega mikil. Syðri hliðin liggr með hraunjaðrinum; hún hefir verið hlaðin upp úr tómu hraungrýti, og er víða aflöguð; hafa hraunkambarnir á sumum stöðum verið notaðir fyrir veggi og er hlaðið á milli þeirra. Á nokkurum stöðum heldr hleðslan sér algerlega, og eru sumir steinarnir mjög stórir. Þessir veggjakaflar eru á sumum stöðum um og yfir 4 fet, enn sumstaðar mjög niðr fallnir. Vestrhlið gerðisins er líkt ger; á þeirri hlið er hleðsla alveg óhögguð og hefir verið vel hlaðin. Alt er þetta mjög fornlegt að útliti og steinarnir mjög mosavaxnir. Hin áðr talda grjóttóft í horni gerðisins er auðsjáanlega yngri, því að bæði eru veggirnir afarháir og grjótið í henni er ekki jafnmosavaxið. Á þeim köflum gerðisins, þar sem hleðslan er lítið eða ekkert úr lagi gengin, eru veggirnir dregnir að sér, og kunnugt er, að hraungrjót stendr betr í hleðslu enn annað grjót. Hér er auðsjáanlega stórkostlegt mannvirki frá fornöld, og getr enginn efi á verið, að það sé gerði berserkjanna. Landamerkjagarðrinn, sem liggr eftir hrauninu, er og eftir berserkina, og er þetta alt samkvæmt sögunni. Þetta er því merkilegra, sem menn vita gerla um aldr þessara mannvirkja.

---

# Rannsókn í Kjalarnesþingi 1889.

Eftir

**Sigurð Vigfússon.**



## Við Elliðavatn.

(Krossnesþing).

(13. sept.).

Þennan forna þingstað rannsakaði eg nákvæmlega, og vóru með mér þeir bræðrnir kand. jur. Páll Briem, sem nú er sýslumaðr Rangæinga, og kand. polit. Sigurðr Briem[1]).

Allar búðirnar standa í þyrpingu, sunnantil í nesinu þar sem það byrjar fram að ganga við fagra vik umhverfis grasivaxinn hvamm. Syðsta búðin (*1*) snýr í austr-landsuðr og útvestr. Hún er fornleg mjög og veggir útflattir, enn þó sést fyrir steinahleðslu alt í kring. Veggir eru komnir í flög, enn grasivaxin laut er eftir tóftinni hið innra. Lengd búðarinnar er 31—32 fet enn breidd 19 fet (utanmál). Dyr óglöggvar, enn sýnast hafa verið út úr hinum syðra hliðvegg nær eystra gaflhlaði. Fyrir norðan þessa búð, sýnist hafa verið búð (*2*), styttri enn hin og nær skemmra upp; sýnist sami hliðveggr hafa verið undir báðum. Eystra gaflhlaðið er nokkurnveginn glögt, enn þó mjög útflatt, enn fyrir báðum hliðveggjunum, einkanlega hinum nyrðra, sést nokkurn veginn. Lengd búðarinnar, að því er mælt verðr, kynni að hafa verið 28 fet eða meir, enn vestri endinn er mjög

1) Þingstaðr þessi hefir verið rannsakaðr áðr, fyrst af Jónasi Hallgrímssyni, skáldinu (1841), og svo af Skotlendingnum R. Angus Smith (1872) og Sigurði málara Guðmundssyni. Um þessar rannsóknir er til rit eftir R. A. Smith, sem heitir: »On some ruins at Ellida Vatn and Kjalarnes in Iceland«, Edinb. 1874 (með uppdráttum).

ógløggr, því að búðin er svo niðrsokkin. Breidd sýnist um 18 fet, enn um það verðr ekki sagt fyrir víst, enda eins líklegt, að örmjótt sund hafi verið milli tóftanna. Austr af þessari búð, svo sem 2 faðma, hefir verið búð (*2*). Hún er nærri eins ógløgg. Eystra gaflhlaðið er þó gløgt, og hliðveggirnir nokkurn veginn, enn vestra gaflhlað er alt útflatt. Búðin kynni að hafa verið um 28 fet á lengd, enn breidd er 22 fet. Þess skal getið, að í syðra hliðvegg búðarinnar sjást 6—7 hleðslusteinar úr ytri hleðslunni. Hið innra er búðin lægri og grasi vaxin; þessi búð snýr eins og hinar. Svo sem 1½ faðm norðr undan þessari búð eru 3 búðir í röð (*4*, *5* og *6*). Sami hliðveggr á milli og snúa eins; þær eru nokkurnveginn greinilegar. Syðsta búðin (*4*) hefir verið 28 fet á lengd, að því er mælt verðr, enn syðri endinn er þó mjög útflattr, enn þar sést fyrir hleðslusteinum. Breidd mæld af miðjum hliðvegg næstu búðar að norðan og á ytri hleðslubrún 16 fet. Dyr sjást eigi gløggvar, enn þær hafa annaðhvort verið út úr vestra gaflhlaði eða hinum vestra hliðvegg nær vestra gaflhlaðinu. Næsta búðin (*5*) að norðan er greinileg. Þar sjást grjóthleðslur í báðum gaflhlöðum og eins úr nyrðri hliðvegg. Lengd 29 fet, breidd um 15 fet. Dyr hafa verið út úr vestra gaflhlaði. Nyrzta búðin (*6*) virðist eigi fult eins greinileg, einkanlega að vestan-útnorðan. Lengd mun hafa verið fram undir 28 fet; breidd ógløgg, því að norðrveggrinn er jafnaðr við jörðu; þó hefir breiddin víst verið 16 fet. Dyr ógløggvar, enn munu hafa verið úr vestra gaflhlaði. 3½ faðm vestr og niðr undan þessum 3 búðum er búð (7), nokkurnveginn greinileg, snýr eins og hinar í austr og vestr. Grjót einkanlega í hinum syðra hliðvegg, og sýnast þar hafa verið dyr við hið vestra gaflhlað, enn þó getr verið, að þær hafi verið út úr gaflhlaðinu miðju. Lengd 33—34 fet og breidd nær 20 fet. Fyrir neðan þessa búð hafa verið 2 búðir, hvor upp af annari (*8* og *9*), og eitt gaflhlað í milli beggja. Lengd nær 23 fet, breidd nær 14 fet. Dyr verða eigi ákveðnar, hafa líklega verið á nyrðra hliðvegg. Vestri búðin hefir verið 26 fet og breidd 17—18 fet. Dyr á nyrðra hliðvegg við vestra gaflhlað. Allar þessar búðir eru líkar að útliti. Við suðaustrhornið á búðinni nr. 7 er enn búð (*10*), mjög fornleg og niðrsokkin, og hefir verið mjótt sund á milli; hana er ilt að mæla; þó hygg eg lengd hennar hafa verið 26 fet, og breidd 17 fet; dyr ógløggvar, enn sýnast hafa verið út úr syðra hliðvegg skamt frá hinu eystra gaflhlaði. Rúma 7 faðma norðr frá búðinni nr. 9 er búð (*11*), ákaflega stór og breið, hin stærsta af öllum áðrnefndum búðum.

Veggir digrir, og sést grjót í þeim alt í kring, og víða stórir steinar. Búðin er ein af hinum glöggustu sem hér eru. Þetta er sú búð, sem Jónas Hallgrímsson gróf í. Hann gróf í vestri enda búðarinnar, og hefir það verið víð og djúp gröf. Hefir hann rifið tóftarendann upp, heljarbjörg, og liggja þau þar í hrúgum utantil við mitt vestrgaflhlað búðarinnar, eins og urð, og fæ eg eigi skilið í hverju skyni slíkr gröftr hefir verið gerðr. Að veggr hafi gengið yfir þvera búðina, eins og stendr á uppdrætti Sigurðar Guðmundssonar, fæ eg eigi séð. Að ofanverðu sést heldr eigi móta fyrir neinum hliðvegg. Tvær grafir sýnast og hafa verið grafnar við efra gaflhlað, sín í hvoru horni. Lengd búðar þessarar er 52 fet og breidd 29 fet. Dyr sýnast hvergi hafa verið á hliðveggjunum, enn einungis út úr vestra gaflhlaði. Búðin snýr í vestr-útnorðr. Þessi búð hefir víst verið búð Kjalnesingagoðans. Á milli búðanna 8 og 9 og þessarar búðar (11) er svæðið, þar sem Jónas Hallgrímsson og Sigurðr Guðmundsson setja dómhring. Enn það getr ekki staðizt, enda hygg eg að steinar þeir sem þar standa sé svo settir af náttúrunni, og mjög er þetta ólíkt þeim dómhring, sem eg hefi rannsakað í Hegranesþingi. Þar á móti virðist hér hafa verið búð (*12*), sem er svo ákaflega fornleg og útflött, að naumast er hægt að sjá hana. Lengd og breidd verðr ekki ákveðin með vissu, enn virðist vera um 42 fet; breidd verðr að vísu eigi ákveðin, enn ætla má að hún hafi verið um 24 fet, því sé nákvæmlega athugað, held eg að sjá megi fyrir hleðslusteinum á öðru horni hins syðra hliðveggjar. Beint upp undan búðinni nr. 11, svo sem 6—7 fet, þar á háum hóli, eða barði, er búð (*13*) mjög stór. Hún er 48 fet á lengd og 24 fet á breidd, og snýr í útnorðr og landsuðr; dyr munu hafa verið á hinum syðra hliðvegg við útnorðr-gaflhlað. Þessi búð liggr hæst af öllum búðum á þingstaðnum, og er þar að auki hin efsta, sem eg get fundið. Austnorðr undan þessari búð, svo sem 16—20 faðma, er hár hóll með vörðu. Þrjá faðma í útnorðr frá stóru búðinni nr. 11 er búð (*14*), sem snýr nærri norðr og suðr og öðruvísi enn aðrar búðir hér, lengd 35 fet, og breidd mun hafa verið 17 fet. Dyr held eg hafi verið á eystra hliðvegg, helzt nær hinu nyrðra gaflhlaði. Norðr af þessari búð á dálitlum hól mótar fyrir einhverri byggingu; ef það er búð, hefir hún verið lítil, og hin nyrzta á þingstaðnum. Langt frá þeirri búðaþyrpingu, er nú hefir verið lýst, í útvestr frá hvamminum, eru þrjár búðir, sem allar snúa nær því í austr og vestr. Syðsta búðin (*15*) er einstök; lengd 34 fet og breidd 21 fet; dyr

verða eigi fyrir víst ákveðnar. Rúmum 3 föðmum norðr af þessari búð eru tvær búðir stórar með einum millivegg; syðri búðin (*16*) er 39 fet á lengd, enn 22 fet á breidd; nyrðri búðin (*17*) 42 fet á lengd, enn 22 fet á breidd. Eigi verðr sagt hvar dyr hafa verið, enn helzt munu þær hafa verið á eystri gaflhlöðunum (undan brekkunni). Þessar búðir eru hinar vestustu á þingstaðnum. Alls hefi eg þá fundið hér 17—18 búðir, og þarf eg eigi að taka það fram, að þingstaðr þessi er í mesta lagi fornlegr, og þegar hann er borinn saman við aðra þingstaði, sem eg hefi rannsakað, er það ljóst, að hann er frá þjóðveldistímanum.

---

# Rannsókn í Austfirðingafjórðungi 1890.

Eftir

**Sigurð Vigfússon.**

Eg fór heiman úr Reykjavík með póstskipinu »Laura« mánudaginn 16. júní kl. 9 um morguninn suðr og austr um land til Djúpavogs við Berufjörð, og kom þangað 17. júní um kveldið. Þar fór eg af skipinu. Daginn eftir (18. júní) fór eg frá Djúpavogi ríðandi í kringum Hamarsfjörð (Álptafjörð nyrðra) og suðr í Álptafjörð, þar sem Síðu-Hallr bjó. Var um nóttina á Starmýri, sem er utarlega í firðinum, næsti bær fyrir innan Þvottá. Hinn 19. var rigning og óveðr; var eg því kyrr þann dag, enda var eg vesæll af kvefi. Hinn 20. fór eg frá Starmýri og suðr yfir Lónsheiði, sem er um 3 tíma ferð milli bygða; þá er komið ofan í Lónið og er þar sléttlendi mikið. Bær stendr í miðju Lóninu, þar sem Þórðr skeggi bjó fyrst og síðar Úlfljótr, sem lög hafði út hingað. Jökulsá í Lóni er allmikið vatnsfall og er skamt fyrir sunnan Bæ. Síðan fór eg suðr Almannaskarð, sem er millum Lóns og Skarðsfjarðar, enn Skarðsfjörðr er eystri hluti Hornafjarðar. Undir Skarðsbrekku bjó Hrollaugr son Rögnvalds Mærajarls; þar sést nú ekkert fyrir tóftum, og enginn bær er á því svæði, enn það mun víst, að Hrollaugr hefir búið hér, því að Skarðsbrekka heitir enn í dag brekkan niðr undan skarðinu, enn þar er um enga brekku aðra að ræða; hér hefir verið miklu meira undirlendi áðr, því að séra Jón prófastr í Bjarnanesi segir mér, að gamlar sagnir séu um, að þar sem Skarðsfjörðr er, hafi einungis verið eitt eða tvö stöðuvötn[1], enda er hann ekki nefndr

1) Í Ísl. Fornbréfas. I, 536, er þó nefndr »Skarðsfjörðr« í skipan Sæmundar Ormssonar um almenning í Hornafirði (frá því um 1205). *V. Á.*

í Landnámu. Um nóttina var eg í Bjarnanesi og þar kyrr þann 21.—23., því að eg þurfti að glöggva mig hér á mörgu, gera dagbók mína og eiga tal við séra Jón, sem er allra manna fróðastr og sögumaðr mikill. Þessa ferð suðr í Hornafjörð fór eg til þess: 1, að koma í Álftafjörð, einkum að Þvottá, til að skoða þar fornar menjar og örnefni, þar sem hinn mikli höfðingi Síðu-Hallr bjó, er sérstaklega viðkoma veru Þangbrands að Þvottá, 2, að fá yfirlit yfir ferð Flosa til Austfjarða, sem mjög var áríðandi, og 3, að rannsaka um landnám á þessu svæði. — Í Hornafirði er mjög fallegt, sléttlendi mikið og mjög grösugt.

## Austrför Flosa.

Þegar Flosi fór heiman, fór hann fyrst frá Svínafelli og austr á Knappavöll. Það er hæfileg dagleið, heldr stutt, enda var þetta um vetr, nokkuru eftir jól. Annan dag fór Flosi til Breiðár, sem nú er löngu í eyði, sem kunnugt er, enn menn ætla að verið hafi á miðjum Breiðamerkrsandi, sem nú er talinn 9 mílur á lengd. Þetta var mátuleg dagleið, eins og hér stóð á. Þá fór Flosi til Kálfafells (nú Kálfafellsstaðr). Það mun vera einna lengst dagleiðin. Þaðan fór Flosi í Bjarnanes; það er viðlíka dagleið og hin síðast talda. Þá að Stafafelli í Lóni; það er hæg 5 tíma reið. Þessa leið hefi eg sjálfr farið. Þaðan fór Flosi að Þvottá, og er það viðlíka löng leið; þar var Flosi 3 nætr, og hefi eg farið þessa leið. Þaðan fór Flosi til Geithella, sem er utarlega í Álftafirði; þá leið hefi eg og farið; þetta verðr styzta dagleiðin. Svo á að skilja söguna, að Flosi hafi verið hér um nótt, því að austr til Berufjarðar er alt of löng dagleið fyrir langferðamenn marga saman um hávetr á úthallandi skammdegi. Síðan fór Flosi til Berufjarðar og er það fullkomin dagleið um þann tíma, sem hér ræðir um, því fara verðr fyrir framan Búlandstind og svo alt inn í Berufjarðarbotn, sem er langr vegr. Þaðan fór Flosi til Breiðdals í Heydali; þá er að fara yfir Berufjarðarskarð, sem er bratt mjög og örðugt, þótt það sé ekki alllangt; þetta er samt hæfileg dagleið. Þaðan fór Flosi á Hrafnkelsstaði, enn þeir eru ofarlega í Fljótsdalshéraði, næsti bær fyrir innan Hallormsstað; þetta eru tvær dagleiðir og eru á þeirri leið tveir fjallvegir, nefnilega Breiðdalsheiði og Hallormsstaðaháls, sem Flosi hefir hvorttveggja farið; heiðin er um 3 tíma hæg reið, enn hálsinn styttri. Hér eru ekki nefndir náttstaðir Flosa; með engu móti gat hann þó farið þetta á einum degi, enn

það hefir ekki fylgt hinni upphaflegu frásögn, eins og á fyrsta staðnum hér að framan, og því hefir söguritarinn ekki getað sagt það. Þaðan fór Flosi til Bersastaða, enn þeir eru fyrir norðan fljót, eða eiginlega fyrir ofan Fljótsdals botninn norðanmegin í dalnum. Þaðan fór Flosi á Valþjófsstað; hann stefndi norðanmegin í Fljótsdal fyrir framan þar sem dalrinn skiftist. Nú stendr í sögunni, að þeir Flosi fóru fyrir neðan Lagarfljót og yfir heiði til Njarðvíkr; þeir hafa þá farið út með fljótinu að austan; heiðin, sem nefnd er, heitir nú Gönguskarð, og liggr ofan til Njarðvíkr. Þetta hafa þeir Flosi með engu móti getað farið á einum degi, enn hér er eins og fyrri, að söguritarinn hefir eigi vitað um náttstaðinn eða náttstaðina, því að það hefir ekki fylgt hinni upphaflegu frásögn, og bendir þetta enn á, að hann hefir ekki búið neitt til sjálfr, því að hví skyldi hann ella láta ógert að segja frá náttstöðunum sumstaðar? Það var þó fróðlegra og gerði söguna fyllri. Þaðan fór Flosi til Vopnafjarðar; þá hefir hann farið upp Gönguskarð aftr og norðr yfir Lagarfljót og Jökulsá, og svo Smjörvatnsheiði, sem sagt er að sé þingmannaleið brúna á milli. Þetta munu hafa verið þrjár dagleiðir hans, enn náttstaðir ekki taldir, af sömu ástæðum sem fyr er sagt. Frá Hofi fór Flosi að Krossavík; það er hæg þriggja tíma reið.

Nú stendr í Njálss.: »Þaðan fóru þeir norðr til Vopnafjarðar ok upp í Fljótsdalshérað«. Þetta sýnist vera ritvilla í staðinn fyrir: »Þaðan fóru þeir *inn* Vopnafjörð ok upp í Fljótsdalshérað, ok gistu at Hólmsteins Spak-Bersasonar«, þ. e. á Bersastöðum. Þaðan fór Flosi upp í Fljótsdal, og þaðan suðr á fjall um Öxnahraun og ofan í Sviðinhornadal, og út um Álftafjörð fyrir vestan. Öxnahraun hlýtr að vera eða hafa verið kallað milli Fljótsdals og Sviðinhornadals, sem nú heitir Hamarsdalr, og gengr upp af Hamarsfirði.

Þessi frásögn í Njálss. er öll rétt, að því er séð verðr, og vel og skilmerkilega frá sagt; hefi eg sjálfr farið mest af þessari leið, og að öðru leyti stuðzt við frásögn merkra manna, nákunnugra.

## Þvottá.

(24. júní).

Þvottá er syðsti bærinn í Álftafirði; þar er fallegt og sléttlendi mikið niðr frá bænum, og langt til sjávar; bærinn stendr ekki langt frá fjallinu. Í suðr frá bænum spölkorn hefir hinn

gamli bær staðið, að því er sagt er; þar standa nú fjárhús, og er þar mikil upphækkun undir, og miklu meiri enn undir bænum sem nú er. Norðr frá gamla bænum er og nefndr fjóshóll, þar sem fjósið hefir verið. Frá þessum gamla bæ og suðr að túngarðinum eru 28 faðmar þar sem styzt er, og beint í suðr frá túngarðinum er merkileg tóft, sem enn í dag er kölluð *tjaldstæði Þangbrands*. Frá garðinum og að tóftinni eru 10 faðmar, og frá tóftinni út að ánni Þvottá, sem rennr fyrir sunnan túnið, eru 27 faðmar. Þetta svæði er alt sléttar grundir. Tóftin stendr á sléttri grund; hún hefir verið nær ferskeytt, og er austrveggrinn nær beinn, enn vestrhluti tóftarinnar er meira aflagaðr, því að stungið sýnist hafa verið úr veggjunum. Í suðr og norðr er tóftin 47 fet utanmál, enn á hinn veginn 45 fet; dyr hafa verið á vestrvegg nær norðrhorni; þær eru mjög svo fallnar saman, enn sjást þó svo vel, að víst er að þær hafa ekki verið annarsstaðar. Tóftin er mjög vallgróin og fornleg, og veggir svo ákaflega útflattir, að í austrhorninu, þar sem mest er útflatt, eru þeir 15—20 fet á breidd; hæð tóftarinnar verðr, að því er eg get séð, 2—3 fet. Að innan er tóftin að mestu leyti í ferhyrning. Eg rannsakaði gólf þessarar tóftar með gretti, og gróf 4 grafir, sem hver var 2 fet í þvermál og um 2 fet á dýpt; jarðvegr var fets þykkr, enn möl undir. Hvergi var þar gólfskán, né litarbreyting á moldinni. Þetta mun vera tóft sú, er Þangbrandr söng í messu, og hefir hann tjaldað yfir, eins og nafn tóftarinnar sýnir. Njálss. bendir og á þetta, sem síðar mun sagt; dyr tóftarinnar sýna og hið sama, þar sem þær snúa í vestr og á þann veg, sem minst er útsjón, enn þar hefir helgisiðr ráðið. Leifar af fornum túngarði eru fyrir ofan túnið, og eftir stefnu hans hefir tóftin verið sunnantil við hann, og því í »túnvellinum«[1]. Um 50 faðma frá tóft þessari, eða »tjaldstæði Þangbrands«, er forn brunnr, sem enn heitir *Þangbrandsbrunnr;* úr honum fellr lækr, sem Brunnlækr er nefndr. Gömul munnmæli segja, að Þangbrandr hafi vígt brunn þenna; bezta vatn er í honum, og er enn trú á, að vatnið sé heilagt og lækni meinsemdir, bæði á mönnum og skepnum.

Þegar eg fór frá Þvottá kom eg í *Leiruvog*, sem heitir svo enn í dag, þar sem Hallr kom skipi Þangbrands. Leiruvogr er

---

1) Fyrir innan túngarðinn beint undan »tjaldstæði Þangbrands« er upphækkun, sem er ekki ólík fornum skálatóftum og er um 90 fet á lengd. Mér þykir ekki ólíklegt, að þar hafi staðið elzti skáli á Þvottá og jafnvel Síðu-Halls.

innarlega í »Starmýrarvogum«, sem kallaðir eru. Innantil við voginn er klettr mikill og ekki ólíkr bryggju í lögun, og er kallaðr *Þangbrandsbryggja*. Þar fyrir innan sést votta fyrir fornu nausti, sem enn í dag heitir *Þangbrandshróf*. Það er og nefnt í Kristnisögu. Þar heitir og *Hrófkill*. Mörg örnefni eru hér því enn kend við Þangbrand, og er það allmerkilegt og styðr sagnirnar um hann.

Í sambandi við þetta skal eg geta þess, að niðr undan Bæ í Lóni, við sjóinn, er að brjóta upp ákaflega fornt naust; jarðlagið ofan á því er um 6 fet. Það er líklega eftir hina írsku menn, er hér bjuggu fyrir landnámstíð.

## Hvar kom Þangbrandr út?

Njálss. segir: »Þetta haust hit sama kom skip út austr í fjörðum í Berufirði, þar sem heitir Gautavík. Hét Þangbrandr stýrimaðr«. *Gautavík* er svo sem tvær bæjarleiðir fyrir innan Berunes; þar er ágæt höfn og hefir verið kaupstaðr frá alda-öðli. Síðan er getið um bræðr tvo á Berunesi gagnvert Djúpavogi, er bönnuðu héraðsmönnum að eiga kaup við þá Þangbrand. Þetta spurði Hallr af Síðu[1], er þá bjó að Þvottá í Álftafirði; hann reið til skips með 30 manna og fer á fund Þangbrands, og verða þau málalok, að Hallr tekr hann að sér, og býðst til að greiða fyrir ferð hans og kaupum. Síðan fór Þangbrandr til Þvottár um haustið, og lætr einn morgun skjóta þar landtjaldi til að syngja messu. Aftr segir Kristnis. (Bisk. s. I, 11): »Þat sumar fór Þangbrandr til Íslands; hann kom skipi sínu í Álftafjörð hinn nerðra í Selvága fyrir norðan Melrakkanes«. Enn er menn vissu að Þangbrandr var kristinn, vildu menn ekki mæla við hann, og ekki eiga kaup við hann, »ok eigi vísa þeim til hafnar«. Hallr á Síðu átti ferð til Fljótsdals, og er hann fór heimleiðis, þá fór Þangbrandr á fund hans, og bar honum kveðju Ólafs konungs og bað hann vísa þeim til hafnar og veita þeim liðsinni. »Hallr lét flytja þá til Álftafjarðar hins syðra í Leiruvág, ok setti upp skip þeirra þar er nú heitir Þangbrands-róf, enn Hallr færði skipsfarminn heim á túnvöll sinn, ok gerði þar tjald þat, er þeir Þangbrandr váru í. Þar söng Þangbrandr messu«. (Bps. I, 11).

---

1) *Síða* hefir líklega heitið í fornöld frá Sólheimasandi og alt austr til Berufjarðar, að minsta kosti til Almannaskarðs. Sbr. Bisk.s. I, 264, og Sturl.: »Þaðan fór hann austr á Síðu ok í Ver austr«.

Fornmannasögur II, 197, segja á sama hátt, að Þangbrandr hafi komið skipi sínu í Selvoga í Álftafjörð nyrðra. Enn fremr segir þar, að Síðu-Hallr átti ferð norðr í Fljótsdal »at skyldum erindum«, enn er hann fór suðr aftr, gekk Þangbrandr fyrir hann og bar honum kveðju Ólafs konungs, og bað hann veita sér ásjá og koma skipi sínu til hafnar. Leiruvogr er þar líka nefndr, og »Þangbrandshöfn« (»-naust« hefir eitt hdr.), svo og tjaldið, sem þeir bjuggu í, þar sem Þangbrandr söng messu.

Þegar þessar frásagnir eru athugaðar og bornar saman, þá skilr þær ekki svo mikið sem í fljótu bragði virðist, því að hver bætir aðra upp, enn mótsagnir eru engar verulegar. Njálss. segir, að Þangbrandr kom út í Gautavík, skamt fyrir innan Berunes, þar sem bræðr tveir bjuggu, sem sýndu honum fjandskap; er auðsætt, að Þangbrandr hefir flúið þaðan yfir Berufjörð og alt suðr fyrir Búlandsnes í Selvoga, þótt Njálss. ekki tali um það. Þetta liggr í hlutarins eðli, því að Gautavík er ekki á leið Halls, er hann fór upp í Fljótsdalshérað, sem hann hefir gert; Njálss. er þannig að eins stuttorðari. Í Kristnis. er enn komizt svo að orði, að Selvogar sé fyrir norðan Melrakkanes, enn í Fornmannas. er að eins sagt, að þeir sé í Álftafirði hinum nyrðra (Hamarsfirði) og er hvorttveggja alveg rétt. Melrakkanes heitir enn nesið fyrir sunnan Hamarsfjörð, millum og Álftafjarðar hins syðra. Utarlega í Hamarsfirði eru margir vogar fyrir Búlandsness landi; ofan undan bænum á Búlandsnesi eru tveir vogar og sandrif á milli; þar er ágætt skipalægi og heitir þar nú Búlandshöfn. Þessir vogar hafa eflaust heitið Selvogar áðr; þar er betri höfn enn annarsstaðar í grendinni, og fult af sel árið um kring; liggja þar oft uppi 70—80 sela. Þar nærri eru ýmsir vogar, enn í þeim flestum enginn selr. Frásögnin í Fms. er þannig af sama bergi brotin sem frásögnin í Kristnis., enn tekr sumt skýrara fram, enn frásögnin í Njálss. virðist alveg út af fyrir sig. Njálss. er ónákvæmari, enn kemst þó réttara að orði um tjaldið, því líklegt er að það hafi verið notað mest til messugerða, enn þeir Þangbrandr hafi búið í öðru húsi á Þvottá, enn vera má að þeir Þangbrandr hafi þó fyrst búið í tjaldinu, er þeir vóru nýkomnir.

## Þingmúli.

(7. júlí).

Bærinn í Þingmúla stendr undir háum og fallegum múla, er skiftir Skriðdalnum í tvent, og er þá kallaðr suðr- og norðr-dalr.

Efst á túninu við túngarðinn er stór jarðfastr klettr, sem heitir »Goðasteinn«. Í útsuðr frá steininum er tóft (*1*), og hefir hesthús verið bygt ofan á suðrendann; önnur tóft (*2*) er þar samhliða, 10—11 faðmar á lengd og um 7 faðmar á breidd. Tóftir þessar eru ákaflega útflattar og fornlegar; veggir digrir. Þetta svæði heitir »Goðatún«. — Nokkuru neðar í túninu á hóli er fornleg tóft (*3*) 7 faðm. á lengd og 5 fðm. á br., að því er mælt verðr. Suðr eftir háhrygg túnsins sýnast hafa verið tjórar tóftir (*4*--*7*), hver niðr undan annari, enn þær eru svo fornlegar og aflagaðar, að þær verða með engu móti mældar; dyr á þessari fyrsttöldu tóft eru eru á vestra hliðvegg við gaflinn. Hér niðr undan er ein *tóft* (*8*), sem snýr samhliða, um 8 faðma á lengd og 5 faðma á breidd, að því er mælt verðr; dyr sýnast hafa verið á austrhliðvegg nær suðrenda. Á hólnum fyrir sunnan bæinn niðr á árbakkanum er tóft (*9*) mjög fornleg; snýr frá landnorðri til útsuðrs; hún er um 9 faðma á lengd og um 4 faðma á breidd; dyr munu hafa verið á austrvegg. Neðan í hól norðvestr frá bænum sýnast hafa verið tvær eða fleiri tóftir (*10*—*11*), enn þær eru svo niðrsokknar, að þær verða ekki mældar. — Fleiri tóftir hafa getað verið hér. Tvær hinar fyrsttöldu munu hafa verið einhverjar átrúnaðartóftir, eins og nafnið bendir á, enn hinar geta allar verið þingtóftir eða búðir, því að þær líkjast mjög þeim tóftum, sem eg hefi rannsakað á fornum þingstöðum. Dr. Kålund segir (Isl. II, 242—243), að lítið vitni um þingstaðinn í Þingmúla annað enn nafnið, og búðartóftir segir hann að þar sé engar. Nú hlýtr að vera eitt af þrennu, að Kålund hefir ekki komið hér, eða hann hefir leitað hér mjög óvandlega, eða hann hefir ekki þekkingu á fornum tóftum.

Múlá rennr nú rétt fyrir neðan bæjarhólinn á Þingmúla, enn séra Páll Pálsson sagði mér, að áin mundi áðr hafa runnið hinum megin í dalnum út við Arnhólsstaði, enn að þverárnar, sem í hana renna, mundu hafa kastað henni frá því landinu. Sagði séra Páll, að sannanir væri fyrir, að áin hefði runnið austr undir brekkum á 18. öld. — Í Þingmúla hefir verið mjög fallegt, áðr enn árnar spiltu landinu þar austr undan.

Austr af Þingmúla, fyrir austan á, þar á eyrunum, sést fyrir ákaflega stórri hringmyndaðri girðingu. Hún er orðin mjög niðr sokkin, enn þó mótar fyrir henni alt í kring. Girðing þessi hefir verið 96 fet á annan veg, og 90 fet á hinn (utanmál), að því er mælt verðr; stórar dyr eru á, og jafnvel fleiri enn einar. Þessi hringr er næsta einkennilegr, og er hinn stærsti slíkr hringr,

sem eg hefi séð, og enn stærri enn hringrinn á Hegranesþingi, sem er 83 fet á annan veg. Það er alls ekki ólíklegt, að þingstaðr hafi verið hafðr á þessum fögru og víðlendu eyrum, enn búðirnar uppi í túninu á Þingmúla, enda hefir ekki verið langt að ganga frá búðunum á þingið, svo sem 150—200 faðmar. Það er jafnvel eins langt frá sumum búðunum á alþingisstaðnum upp að lögréttunni. Þetta land liggr nú undir Arnhólsstaði, enn þetta getr alt hafa breyzt, með því áin hefir breytt farveginum, enda koma ekki landamerki þingstaðnum við[1].

## Fljótsdalr, Fljótsdalsheiði og Hrafnkelsdalr.

Hinn 8. júlí fór eg frá Hallormsstað og upp með Lagarfljóti. Þar heitir *Atlavík*, fornt bæjarstæði, og verðr því síðar lýst. Innar með fljótinu er kallað »Geitagerði«; þar er túngarðr fornlegr í kring. Efst í garðinum er *tóft* allmikil með litlu afhúsi við annan enda; hún er um 70 fet á lengd; þar af er aðalhúsið 50 fet; dyr eru á vestrhlið og dyr á afhúsinu, við gaflinn, á sömu hlið; breidd á þessari tóft er 26 fet. Túnið mun vera á aðra dagsláttu. Hér eru ekki fleiri tóftir. Það er sjáanlegt af útlitinu, að þetta er fornt býli, því að þessi mannvirki eru eins fornleg og hin áðrtöldu.

Nokkuru innar upp frá fljótinu, stendr bærinn *Bolungarvöllr* þar sem Einarr Atlason bjó. Fyrir innan Gilsá, sem er fyrir innan Bolungarvöll, þar á litlum tanga, er steinaröð hringmynduð; þar innan í er sem uppblásin steinþró, sem snýr frá austri til

1) Eg spurði mjög að fornum mannvirkjum í Þingmúla, enn frá þessu mannvirki var mér ekki sagt fyr enn um leið og eg fór af stað. Reið eg þá til að skoða þetta, og sá hverskyns var, enn hafði engan tíma til að rannsaka hér með grefti. Bað eg því Jón Ísleifsson, búfræðing í Þingmúla, að leita þess með grefti, hvort hér væri nokkur gólfskán. 29. s. m. ritar hann mér: »Eftir ósk yðar hefi eg grafið í girðinguna í Arnhólsstaðanesinu, og varð eg alls ekki var við neina skán, sem bendi á að þar hafi verið fénaðarrétt. Eg gróf í tveim stöðum, $1^1/_2$ alin á dýpt í öðrum staðnum, enn fulla alin í hinum, og var þá komið ofan á fastan leir. Eg skoðaði vandlega það sem úr gryfjunum kom, og var það finn sandr og mold, enn hvergi vottr til minstu skánar«. — Jón þessi er greindr maðr og hefir gott vit á jarðefnum, samkv. því er hann hefir lært. Þetta er því eflaust dómstaðr, líkr þeim sem er á Hegranesþingi. Vér sjáum, að hér er fleira enn Kålund segist frá.

vestrs; hún er 6 fet á lengd. Þetta er alt saman uppblásið, svo að þetta er slétt við jörðu. Það er auðsjáanlegt, að þetta eru leifar af fornum *haug*, enda sáust þar fyrir nokkurum árum uppblásin hrossbein, og með því að þetta er rétt fyrir ofan *Hrólfsstaði*, er líklegt, að þetta sé haugr Hrólfs, er þar bjó.

*Hrafnkelsstaðir* standa nú góðan spotta inn frá fljótsbotninum, eða með öðrum orðum: fljótið nær nú eigi eins langt inn eins og á fyrri tímum. Jökulsá og Keldá renna rétt með túninu, eftir að þær koma saman, svo að nú verðr ekki riðið þar fyrir neðan túnið, eins og á tíma Hrafnkels. Á Hrafnkelsstöðum þótti mér fallegt, ekki stórkostlegt, enn skemmtilegt. Nafnið *Skálavað*, á ánni, er týnt, enn líklegt er að það hafi verið skamt fyrir innan Hrafnkelsstaði, þar yfir í nesið, er gengr fram í ána að norðan. Þetta er nær því á móti Bessastaða-á, sem fellr niðr norðan af Fljótsdalsheiði, í ákaflega djúpu gljúfragili, úr »Gilsárvötnum«, sem kölluð eru, vestr á heiði. Sú á hefir áðr heitið »Gilsá«, því að í Annálum stendr, að Þorsteinn prestr Andrésson frá Hallormsstað drukknaði í Gilsá í Fljótsdal 1411.

Í litlum fögrum hvammi, útsunnanvert við ána, gagnvart *Bersastöðum*, litlu ofar en áin kemr fram úr gljúfrunum, er löng tóft, mjög niðrsokkin, 60—70 fet á lengd; breiddin verðr eigi ákveðin, eða hvar dyr hafa verið, enn víst mun þetta vera *blóthús Bersa.*

Frá Hrafnkelsstöðum fór eg alla hina sömu leið, sem Hrafnkell, þegar hann elti Eyvind, og svo alt norðr á *Jökuldal*, og yfir Jökulsá á drætti, þar sem hún fellr í þröngum gljúfrum, og síðan upp allan *Hrafnkelsdal.*

Fljótsdalsheiði, millum Fljótsdals og Jökuldals, er mjög löng, og er sögð um þingmannaleið milli bygða. Upp á heiðina er farið skamt fyrir innan Bersastaði. Nafnið *Bersagötur* er nú týnt, enn þær hljóta að hafa verið fyrir austan miðja heiði. Norðan til á heiðinni eru lág fjöll, sem enn í dag heita Eyvindarfjöll, og út frá fjöllunum gengr sem hali eða tagl, sem farið er yfir. Hér er ljóslega frá sagt í sögunni; þegar kemr á miðja heiði, verða fyrir öldur tvær, sem liggja út og inn eftir heiðinni, og lægð í milli. Þar hygg eg vera þá »svarðlausu mýri«, sem sagan talar um. Að vísu mun þetta nú vera orðið nokkuð umbreytt; þó var svo blautt á þessum stað, að við urðum að fara af baki og teyma; sukku hestarnir mjög í. Eg skal geta þess, að heiði þessi er nú orðin mjög graslaus og hálf-ill yfirferðar, með því að enginn vegr er, þegar fara skal í Hrafnkelsdal. Þegar komið er yfir þessa

lægð, kemr langt svæði, grýtt með köflum, enn með sandi og mosaþembingi á milli. Þegar norðr af því dregr, fer að halla ofan í »Grautarflóa«, sem kallaðr er; hann er að sunnanverðu við *Eyvindarfjöll* og *Eyvindardal,* og eftir honum rennr *Eyvindará.* Þessi »Grautarflói« er sjálfsagt sú *Uxamýri,* er sagan nefnir, og yfir höfuð stendr þessi lýsing sögunnar vel heima. Þar sem af mýrinni kemr og dregr upp í fjallið, hefir verið *Eyvindartorfa,* sem nú er öll uppblásin og horfin, og segir mér svo Sigfús á Skjögrastöðum, greindr maðr og fróðr um örnefni, að faðir hans hafi séð Eyvindartorfu og haug á henni, enn þá hafi torfan verið svo blásin, að ekki hafi verið eftir nema lítill kragi í kringum hauginn.

Yfirleitt verðr ekki sagt, hvar þeir Eyvindr hafa farið; því alt er hér orðið svo umbreytt. Eg skal geta þess, að þegar Eyvindarfjöllum sleppir, er eftir hér um bil fjórðungr heiðarinnar.

Hrafnkelsdalr gengr út úr Jökuldal, skamt fyrir utan Brú, í landsuðr; hann er 4 mílur á lengd eða meira, og skiftist þar efra í tvo smádali. Hrafnkelsdalr hefir fyrrum verið mjög fallegr dalr, og er enn á mörgum stöðum, og því fallegri sem ofar dregr. Í einum stað fyrir ofan Aðalból er sá fallegasti staðr, sem eg hefi komið á í nokkurum dal; hlíðarnar grösugar, undirlendið eggslétt og þakið grænum víðiskógi, töðugresi, sóleyjum og öðru blómgresi. Áin líðr yndisleg niðr eftir dalnum í smábugum; hún er ekki all-lítil, enn spegiltær og lygn. Á þessu fagra svæði stóðu *Laugarhús,* þar sem Bjarni bjó, faðir þeirra Sáms og Eyvindar. Þar er dálítill hver eða laug, er gerir alt fegra. Þar mótar fyrir bæjartóftum. Hér væri vel lagað að hafa skemtistað á sumrum. Neðst í dalnum að sunnanverðu er alt orðið sandorpið langt upp eftir, og öskufallið úr Öskju 1875 hefir mjög eyðilagt dalinn, og líka mikið svæði af Jökuldal, og er það hörmulegt að sjá. Hrafnkelsdalr hefir verið einhver hinn yndislegasti dalr í fornöld; var því von að Hrafnkell elskaði dalinn.

Nú standa að eins tveir bæir í dalnum, *Vaðbrekka* og *Aðalból,* sem er nokkuru ofar. Þar er enn mjög fallegt. Í dalnum hafa verið 7 bæir aðrir, sem enn sjást merki til[1]: *Glúmsstaðasel* inst, *Þuríðarstaðir, Laugarhús,* sem áðr eru nefnd, *Þorbjarnarhóll,* þar sem Þorbjörn bjó, faðir Einars, *Þórisstaðir, Þrándarstaðir, Múlakot,* og *Leikskálar,* sem sagan getr, er áttundi bær-

---

1) Í Brandkrossa þætti segir, að í Hrafnkelsdal hafi verið nær 20 bæir. Bæði þar og í Landn. segir, að Hrafnkell hafi búið á Steinröðarstöðum.

inn, enn nú vita menn ekki hvar sá bær hefir verið; hyggja flestir, að hann hafi staðið norðanvert við dalsmynnið; þar er sléttlendi mikið, og sundrgrafið af djúpum jarðföllum, enn engar tóftir gat eg fundið þar. — Eg kom á flesta þessa staði. — Síðan fór eg inn að *Faxahamri*, sem heitir svo enn í dag; hann er $^3/_4$ mílu inn frá Aðalbóli, sama megin. Þar er gljúfragil mikið við ána, er gengr fram úr hlíðinni, og myndar innri brún þess hamarinn, enn grjót hefir hrunið úr honum, og hefir við það myndazt nokkur jarðvegur milli steinanna, og þessi hækkun hefir smám saman hrundið ánni svo sem 10 faðma frá hamrinum, enda eru þar vatnsrásir, sem líka hafa stutt að þessum framburði. — Á þessum eina stað sá eg að vóru missmíði á sögunni, og eru þau að kenna síðari tíma afriturum, og má finna slík dæmi í mörgum sögum. Í sögunni stendr: »Þeir leiða nú hestinn ofan eftir vellinum; einn hamarr stendr niðr við ána, enn fyrir neðan hylr djúpr«[1]. Hér ætti að standa: »Þeir leiða nú hestinn *upp* eftir vellinum, *ok upp í dalinn*«, o. s. frv. Þessi síðustu orð hafa fallið burtu, og »ofan« verið ritað í staðinn fyrir »upp«[2]. Að þetta hafi þannig verið, sannar það sem sagt er um »goðahús« Hrafnkels rétt á eftir: »Heitir þar síðan Freyfaxahamarr. Þar ofan frá standa goðahús þau, er Hrafnkell hafði átt«. Nú stendr þetta alveg heima. *Goðahúsið* fann eg á sama stað sem hér segir. Það er góðum kipp heimar (þ. e. ofan frá hamrinum), enn 80 faðma frá hlíðinni, á fögrum bala milli djúpra jarðfalla, sem eru grasi vaxin. Tóftin er um 40 fet á lengd, með afhúsi og millivegg, snýr frá austri til vestrs. Þetta mannvirki er orðið mjög óglögt, enn sést þó.

Fyrir ofan bæinn á Aðalbóli, í túninu, er tóft, ákaflega fornleg, útflött og niðrsokkin, sem enn í dag ber nafnið *útibúr Hrafnkels goða*. Tóftin snýr upp og ofan, og er á lengd um 44—45 fet, enn á breidd um 29—30 fet. Hún er mjög niðrgrafin í miðju; þó sést greinilega fyrir nyrðra hliðvegg og syðra kampinum. Rétt fyrir ofan efsta hús bæjarins sést móta fyrir eins og hliðvegg á húsi, það er að segja, þetta stendr út undan bænum, enn ofan á hitt hefir verið bygt; þetta er ákaflega niðr sokkið,

---

1) Þar niðr við ána er að réttu lagi enginn »hamarr«, enn þó stendr þar svo á, að þar hefði mátt týna hestinum, eins og sagan segir, enn það getr ekki staðizt, sem nú mun sagt verða.

2) Á líkan hátt er misritað »ofan« fyrir »upp«, þar sem segir í Hrafnkelssögu, að Þorbjörn reið »ofan eftir Hrafnkelsdal«, er hann fór til Laugarhúsa, að segja Bjarna bróður sínum víg Einars. *V. Á.*

enn þó nokkurnveginn glögt. Lítr út fyrir, að hér sé undirstöðuveggrinn af *skála Hrafnkels,* og er full ástæða til að ætla svo, því að þetta stendr mæta vel heima við orð sögunnar. Frá kampinum á útibúrinu og á þennan vegg eru 21—22 fet; stendr þá bærinn núna litlu neðar enn í fornöld, þannig að efsta húsið stendr inni á miðjum skála Hrafnkels. Þessi einkenni eru glögg, þegar vel er að gáð, og er það ekki meira, þótt nú megi sjá leifar af skálaveggnum, heldr enn af útibúrinu, sem heldr sínu nafni enn í dag. Hér er og þess að gæta, að bærinn á Aðalbóli hefir verið undirorpinn minni breytingum enn alment gerist, því að Hrafnkelsdalr lagðist að sögn í eyði í svartadauða, og var ekki bygðr aftr fyr enn á öldinni sem leið.

Þá er þeir Sámr og Þjóstarssynir riðu að Hrafnkeli, fóru þeir yfir brú á Jökulsá, sem er beint á móti fjallsenda þeim, sem er á milli Hrafnkelsdals og Jökuldals, og svo þar upp á múlann og inn eftir hallinum, þar til þeir komu utan undir fjallið, sem Aðalból stendr undir. Þar er stór bunga á fjallinu, og eru þar utan í þær »grasgeilar«, sem sagan talar um. Þær heita svo enn í dag; þar skildu þeir hestana eftir, og gengu svo á snið inn og niðr eftir fjallinu, og hafa þeir gengið ofan gil þau, sem eru í hlíðinni beint upp undan bænum á Aðalbóli. Á þann eina hátt gátu þeir komið mjög á óvart. Er hér vel og greinilega frá sagt.

Þess skal getið, að alt sem segir um *Grjótársel* í sögunni og *reið Einars á Freyfaxa, dys hans,* o. s. frv., stendr nákvæmlega heima, er það er staðlega skoðað. Eg gat með engu móti komið á þessa staði sjálfr. Kunnugir menn sögðu mér, að leið sú er Einar reið Freyfaxa mundi ekki vera meira enn 24 tíma ferð fyrir gangandi mann, rösklega gengið.

## Hrafnkels haugr freysgoða.

(11. júlí).

Hrafnkelssaga segir það með ljósum orðum, að haugr Hrafnkels sé í Hrafnkelsdal »út frá Aðalbóli«. Skamt fyrir utan bæinn, svo sem 70—80 faðma, var að sjá sem haugr eða haugstæði væri; þetta var mjög lágt og niðr sokkið, um 20—21 fet í þvermál, grasrótarlaust að ofan og flatt, svo að út leit fyrir, að hér hefði eitthvað verið hreyft við, enn barmarnir vóru vandlega vallgrónir umhverfis og glöggvir. Þetta bar nú að vísu ekkert það nafn, að næg ástæða væri til að byggja á því einungis, þótt

sumir héldu að hér væri haugr Hrafnkels, enn sögunnar orð hafa reynzt mér trú í alla staði, að frátekinni þeirri misritun, sem áðr er sagt. Að nafnið var týnt að mestu, getr komið af því, að dalrinn var svo lengi í eyði, sem áðr segir. Enn með því að eg var kominn hér um svo langan veg og torsóttan, einungis til að rannsaka, og mundi aldrei koma hér framar, þótti mér einsætt að reyna, hvort hér fyndist nokkuð eða ekkert. Eg fékk mér því tvo menn til að grafa hér í. Lét eg fyrst byrja að neðan og gera breiðan gröft þvert gegnum þetta mannvirki og þar niðr. Fyrst var ekki annað að sjá enn mold, enn þegar kom á aðra alin niðr, fór talsvert að festast fyrir, þar til kom eins og þétt leirlag á sumum stöðum, og það svo, að örðugt var að komast niðr úr því, enn þar sem járnrekan komst niðr, var lausara undir. Þegar kom niðr úr þessu fasta lagi, komum við ofan á birki og annarskonar tré, sem mér virtist að væri eins og dreift hingað og þangað á vissu svæði. Enn það merkilegasta við þetta var, að ýmsar þessar viðartegundir vóru sem sviðnar í eldi að utan, og sáust víða þess konar eldsmerki á trénu; þannig var t. d. einn birkilurkr, sem var eins og tegldr utan eða höggvinn, svo að á honum vóru litlir fletir, og svört húð þar utan á. Hér undir fann eg mannsbein; höfuðið sneri í suðr, enn fótahluti í norðr; mörg af beinum þessum vóru nokkurn veginn hvít, hauskúpan, kjálkar, leggir og mjaðmir, og fleiri af smærri beinum. Utan um bein þessi vóru víða einhverskonar svartar, smágerðar tægjur, enn það var svo fúið, að ekki varð með neinu móti séð, hvort þetta hefði verið nokkurskonar vefnaðr. Tennrnar vóru heilar.

Rétt fyrir ofan vóru önnur mannsbein; þau sýndust liggja nokkuð öðruvísi, ekki eins reglulega og meira á sundrungu, og lágu hin fyrtöldu bein til hliðar; svo var hér minna af beinum, nema aðalbeinin eða hin stærri; tennurnar heilar, enn kjálkarnir fúnari. Hauskúpa þessi sýnist fremr svipmikil, og augnaumbúningrinn mikill, nefið söðulbakað, og hafið upp framanvert, að því er sýnist. Öll þessi bein vóru á tveggja álna dýpi undir yfirborði jarðar. Eg skal taka það fram ljósara, að þessar viðartegundir, sem vóru mjög svo fúnar, hafa verið lagðar ofan á líkin; einkanlega sást það á hinu fyrtalda, enn hitt var meira óreglulegt. Enga hluti fann eg hér aðra, sem heilir vóru, nema ryðmold og græna mold, og ýms þess konar merki. Eg skal geta þess, að jarðvegrinn er hér sandi blönduð mold, sem seint fúnar í. Nú segir í niðrlagi Hrafnkelssögu, bls. 30—31: »En Hrafnkell

sat í búi sínu, ok helt virðingu sinni; hann varð sóttdauðr, ok er haugr hans í Hrafnkelsdal út frá Aðalbóli; var lagit í haug hjá honum mikit fé, ok herklæði hans öll, ok spjót hans hit góða. Synir hans tóku við mannaforráði; Þórir bjó á Hrafnkelsstöðum, enn Ásbjörn á Aðalbóli; báðir áttu þeir goðorðit saman ok þóttu miklir fyrir sér. — Ok lýkr hér frá Hrafnkeli at segja«. Þar sem segir að »mikit fé« var lagt í hauginn, þá vissu það allir, og sé það rétt, þá er óhætt að ætla, að fé það hefir síðan verið tekið úr haugnum, því að það var mikill siðr og forn, að minsta kosti erlendis, sem kunnugt er, enda sjást hér merki, að haugrinn hefir verið eitthvað rofinn. Eg hefi rannsakað nokkura hauga hér á landi, og hefi eg aldrei fundið fé eða slíkt, og ekki annað enn vopnaleifar, meira eða minna. Hafi nú nokkurt fé verið látið í haugana, sem ekki finst þegar þeir eru kannaðir, þá getr ekki öðruvísi á því staðið, enn að það hafi verið tekið burtu síðar. Nú segir sagan: »ok herklæði hans öll«. Þetta má nú skilja um meiri eða minni herklæði. Enn hitt er víst, að herklæðabúnaðr varð hér ekki mikill fyrr enn síðast á 12. öld, eða öllu heldr á hinni þrettándu; og það er kunnugt, að mikill munr er á herklæðalýsingum í vorum eldra sagnaflokki og Sturlungas. Það er því ólíklegt að ætla, að hvortveggja þær lýsingar sé af sama bergi brotnar, eða fyrst ritaðar á sömu öld. Hér í Hrafnkelshaug var og einnig svo mikið af ryðmold o. fl. þess konar, að það gat verið af nokkurum herklæðum, enda gat ekki verið af öðru. Enn fremr segir, að »spjót hans hit góða«, var lagt í hauginn. Þar sem það er kallað *hið góða*, þá hefir það verið fágætt vopn, og nafnkendr gripr; menn sóttust mjög eftir í fornöld að ná í þesskonar vopn úr haugum, og þó að heiðnin væri hér bæði styttri enn annarsstaðar, og fámennari, þá eru þó dæmi þess í sögum vorum: Ólafr pá »hafði krókaspjót í hendi, haugtekið«, þegar hann kom til Íslands. Hér er það sagt til ágætis, að spjótið var haugtekið, Laxd.s. bls. 78. Öll vóru vopnin upp tekin úr »kumli« þeirra austmannanna er féllu, þegar Hávarðr höggvinkinni stefndi Glúmi Geirasyni, sverð, spjót og sax, því að þau þóttu »forkunnargóð«. Reykdælas., bls, 283, 287, 291. Þetta hefir oftar átt sér stað; sögur vorar tala einungis um slíkt þegar þess þarf að geta vegna einhverra viðburða. Það er ekki af tómri ímyndun, að eg hygg að féð — hafi það nokkurt verið — og spjótið muni hafa verið tekið úr hauginum, heldr af því, að eg sá þess glögg merki, að hauginum hafði eitthvað verið raskað síðar, eins og áðr er sagt.

Sagan getr ekki um, að nokkur hafi verið lagðr í haug hjá Hrafnkeli, enn það getr svo vel verið, að kona hans, Oddbjörg Skjöldólfsdóttir, hafi verið lögð í haug hjá manni sínum, hafi hún lifað eftir hann; það er ekki svo allhægt fyrir mig að vita nú þegar, hvort þau fyrst töldu bein, sem lágu til hliðar, eru af karlmanni eða kvenmanni. Enn hitt getr líka verið, að Ásbjörn sonr Hrafnkels, sem bjó að Aðalbóli eftir hann, hafi verið lagðr í haug hjá föður sínum, þegar hann andaðist; sagan nær ekki lengra enn til dauða Hrafnkels[1].

Grafsiðir þeir sem hér hafa verið hafðir eru mjög einkennilegir, enn þeir munu vera forn einkenni. Hið þétta leirlag, sem var ofan á beinunum, bendir á sömu aðferð sem höfð var við Gokstads-skipið; þar var skipið grafið ofan í leirlag (deigulmó), sem huldi það nær alt og hafði varðveitt það frá fúa. Enn hvort hinn brendi eða fúni viðr, sem lagðr hafði verið ofan á líkin, hefir verið látinn þar til að varna fúa, eða þetta er trúar siðr, skal eg að svo komnu láta ósagt[2].

Aðaleinkenni haugsins eru þannig þessi:

1. Útlit hans áðr enn í hann var grafið.
2. Haugrinn var á sama stað sem sagan segir.
3. Brendum viði hafði verið dreift ofan á líkin.
4. Hið þétta leirlag sem ofan á var.
5. Ryðmoldin, sem fanst í haugnum, og önnur slík einkenni.
6. Hin fornu einkenni, sem vóru á beinunum, er vóru hin sömu sem í þeim haugum, er eg hefi áðr rannsakað, og veit fyrir víst að eru frá heiðni.

Hér vantar allar ástæður til að ætla, að haugr þessi sé nokkur annar enn Hrafnkels freysgoða.

Beinin tók eg öll og bjó um vandlega, ásamt hinum brenda viði, er saman loddi, og er nú alt þetta komið á forngripasafnið í Reykjavík.

---

1) Eins og áðr er sagt, hefir haugr þessi verið á fallegasta stað, beint út frá bænum. Hér eru sléttar grundir og harðvelli, jarðvegr mikill. Hvergi annarsstaðar hefir haugrinn verið nálægt bænum, því að þó gizka mætti á, að hann hafi verið á leitinu, sem er langt fyrir utan bæinn, er það ólíklegt, enda sjást þar eigi merki til þess. Þar hefir líka verið bygt eitthvert úthýsi. Eru því engar líkur til, að haugr Hrafnkels hafi verið á öðrum stað enn þessum.

2) Eg veit dæmi til, að brendr viðr eða viðarkol hafa fundizt í kirkjugörðum djúpt í jörðu, og hafa það líklega verið leifar af hinum elztu greftrunum. Þetta hefir eflaust verið gert til að varna fúa. *V. Á.*

# Bæjarústir fornar.

*Atlavík*, sem áðr er getið, á bls. 35, er fornt býli, og er skamt fyrir innan Hallormsstað; þar er fögr brekka móti suðri. Hér eru fornar tóftir, merkilegar. Hér bjó Þórir Atlason, faðir Ólafar, er átti Þorgils son Þorsteins hvíta, er bjó að Hofi í Vopnafirði. Droplaugarsonasaga segir á bls. 6: »Atli kaupir land firir austan fljótið upp frá Hallormsstöðum, er nú heitir í Atlavík, og bjó þar til elli; en nú ero þar sauðhúsatóptir«. Í þætti af Þorsteini hvíta segir á bls. 36: »Maðr hét Þórir, hann var sonr Atla, sem bjó í Atlavík fyrir austan[1] vatn; þar eru nú sauðhús«. Hér er ein aðaltóft, sem er svo stór, að hún er 87—90 fet á lengd. Í tóft þessari er ekkert skilrúm eða millumveggr, hefir því þetta verið afarstór geimr. Hún stendr í töluverðum halla móti útsuðri og eru dyr á neðri enda. Við vestri hliðvegg, nokkuð fyrir ofan miðju, er stór útbygging, enn á henni engar dyr nema inn í aðal-tóftina. Útbygging þessi er hálf kringlótt fyrir ytri enda, sem er fornt einkenni og samkvæmt því sem eg hefi áðr fundið á fornum tóftum. Neðan við útbygginguna er tóft, og sami hliðveggr undir henni og aðaltóftinni, enn sá hliðveggr virðist ekki hafa náð eins langt niðr og nú lítr út, enda er þetta orðið mjög svo niðrsokkið; mega þetta því heita tvær útbyggingar úr aðaltóftinni. Aðrar tóftir eru hér ekki nálægt, og hafa aldrei verið. Fyrir skömmu var reistr lítill kofi í efri enda aðaltóftarinnar, svo að eigi sést öll lengd hennar með vissu, og getr hún því hafa verið nokkuð lengri enn hér er sagt, og má enda sjá þess merki, því það er auðsjáanlegt, að hið efra gaflhlað hefir hlaupið mjög svo inn undan brekkunni. Tóftirnar eru fornlegar; veggir ákaflega útflattir og vallgrónir, enn þó glöggvir. Þessar tóftir, í slíkum halla og harðvelli sem hér er, sem vatn ekki getr etið sundr, geta staðið mjög svo lengi, enda hafa þessar tóftir fornlegt útlit eins og áðr er sagt. Nokkur vottr sést fyrir túngarði, einkum að neðanverðu, enn mjög er hann niðrsokkinn. Neðri hluti túnsins er vaxinn háum skógi, eftir því sem hér gerist, og mældi eg einn skógarrunninn, sem var um 12—14 fet á hæð. Hér er og alt skógi þakið í kring, og bendir það með öðru á aldr þessara tófta. Það er nú áreiðanlegt, að hér hafa staðið hin upprunalegu

---

1) »Vestan« stendr í sögunni, enn það er ritvilla, því að þetta er fyrir austan fljót = »vatn«, eins og áðr segir.

fornu bæjarhús, því að hér er bæði hæst og fallegast o. fl. Eg leitaði um alt túnið og fann hvergi tóftir, sízt slíkar, sem hefðu getað verið bæjarhús.

Þar sem nú báðar sögurnar segja, að þar séu nú sauðahús, sem líklegt er að séu orð söguritarans, heldr enn að það hafi fylgt hinni upprunalegu munnlegu frásögn, þá er um tvent að gera; annaðhvort hafa sauðahús þessi staðið hér einhversstaðar annarsstaðar, eða þá hitt, sem mér þykir öllu líklegra, að úr þessari stóru tóft, sem upprunalega mun hafa verið skáli, hafi verið gert sauðahús, þannig að þeir millumveggir, sem í tóftinni kunna að hafa verið, hafi verið teknir í burtu og síðan gert úr henni fjárhús, enn að minsta kosti hin efri útbygging, sem er hálf kringlótt fyrir endann, sé upprunaleg, enda sýndist mér hún mest útflött. Slíkar útbyggingar við hliðvegginn vóru við skálana, og hefi eg oft fundið það, enn alls ekki við fjárhús hér á landi, hvorki í fyrri tíð, né nú. Í öllum þeim stóru forntóftum, sem eg hefi fundið á ýmsum stöðum hér á landi og bæjarhús hafa verið, hefi eg fundið merki til millumveggja, er sumstaðar hafa verið glöggvir; sumstaðar hafa verið þrjár afmarkanir[1]. Það er því óefað, að þetta afar-langa hús, sem maðr með rökum veit að hefir upprunalega verið skáli, hefir hlotið að vera með afmörkunum einni eða fleirum. Nú er það eftirtektarvert, sem Dropls. segir: »en nú eru þar *sauðatóftir*«. Þetta sýnir að minsta kosti, að þegar sagan var fyrst færð í letr, þá vóru hér komnar tóftir, því hús og tóftir er sitthvað, og sýnir þetta aldr tóftanna, því Dropl.s. hlýtr að vera rituð nokkuð snemma í fyrstunni; það sýna hinar nákvæmu viðburða og staða lýsingar, sem koma svo vel heim við rannsóknina. Vér getum því nokkuð farið nærri um aldr þessara tófta og þá í samanburði við aðrar fornar tóftir, sem maðr veit með vissu hve gamlar eru, og eru í líkum jarðvegi. Það er því áreiðanlegt, að hér eru fundnar leifar af þessum fornu bæjartóftum, þar sem einungis var eitt mjög stórt hús með útbyggingu, því að það er víst, að hér hafa engar aðrar tóftir verið á neinn hátt viðtengdar, því að eggsléttr halli er umhverfis allar tóftirnar alt heim, eða upp að veggjunum.

Þórir bjó í Atlavík eftir Atla. Lengra er ekki frásagt, enn

---

1) Eg hefi ekki sýnt millumvegg í skálanum á Sæbóli, með því að eg var þá ekki viss um það, enn við síðari rannsókn hefi eg fundið þar að minsta kosti eina afmörkun. Skálinn er um 99 fet á lengd, eins og eg hafði sagt í byrjuninni, því síðan hefi eg fundið undirstöðuna.

að líkindum hafa þar fleiri búið eða lengr. Þar sem nú sauðahús þessi vóru orðin að tóftum í söguritarans tíð, verðr tíminn svo stuttr, að hinar fornu bæjartóftir hafa þá hlotið að vera með sínum ummerkjum, þegar hér vóru höfð sauðahús. Þessu hlýtr því að vera þannig varið, að þegar býlið Atlavík lagðist niðr, þá hafi hin fornu bæjarhús þegar verið notuð fyrir fjárhús, líkt og áðr er sagt. Vér sjáum því hér hina fornu húsaskipun nær óbreytta, þ. e. eina stóra tóft, sem að öllum líkindum hefir verið með afmörkunum og útbyggingum.

Eg skal nú enn fremr lýsa öðru fornbýli, er eg fann í þessari sömu ferð, þá er eg fór yfir á Jökuldal.

Hölkná heitir þverá, er rennr ofan í Jökulsá, skamt fyrir utan Hrafnkelsdalsmynni. Upp með ánni að utanverðu, skamt frá veginum vestan undir áum mel, er fornbýli eitt. Sést þar fyrir túngarði alt í kring. Mun túnið á að gizka hafa verið fullar 2 dagsláttur, eftir því sem ráðið verðr af garðinum, sem er mjög niðrsokkinn. Í miðju túninu er forn skálatóft, frá 66—70 fet á lengd, enn 34—36 fet á breidd. Tóftinni er skift í þrent með tveim millumveggjum, og þrem dyrum á sömu hlið, er að ánni veit. Allar eru þær nær þverveggjunum, nefnil. einar á hverjum afhluta, enn aðalinngangrinn mun hafa verið á austrgafli, og er sá afhluti stærstr. Veggirnir eru ákaflega þykkvir, enn niðrsokknir og vallgrónir. Enginn sem vit hefir á gömlum tóftum, og hefir samanburð á þeim, getr efast um, að þetta sé forn bygging, því ásigkomulag tóftarinnar ber það með sér, hvernig sem hún er skoðuð. Enn hér er þó ekki nema ein einasta stór tóft, sem deilt er sundr í þrent með millumveggjum, sem áðr er sagt, enn engin tóft áföst við, og ekki einu sinni nein tóft nálægt, og hugði eg þó að öllu þessu vandlega. Hér hafa menn þá enn dæmi, eða verulega sönnun, fyrir hinni einföldu húsaskipun í fornöld.

Þriðja fornbýlið fann eg í þessari sömu ferð í Mjóvanesi; það er tóft stór og fornleg, svo sem 25 faðma fyrir norðvestan bæinn, og snýr hún því nær í landsuðr og vestr-útsuðr. Hún er 103—104 fet á lengd og 39—40 fet á breidd. Í ytri enda tóftarinnar er lítill millumveggr og dyr á. Dyr eru einnig á eystri hlið út úr aðalhúsinu, og aðrar á af- eða framhúsinu á nyrðra hliðvegg við gaflinn. Veggir eru ákaflega þykkvir, útflattir og vallgrónir, 12—14 feta. Tóftin hefir ekkert nafn, enn líklegast þykir mér, að hún sé forn skálatóft. Afhlutinn er nokkuð lægri, eða gólfið í honum, og getr það verið af því að vatn

hafi staðið þar, því að þar er láglent. Veggir eru digrir, sem áðr er sagt og 4—6 fet á hæð. Dropl.s. talar um skála í Mjóvanesi, er Helgi Ásbjarnarson var þar. Ýmsar fornlegar gyrðingar og stórkostlegar eru þar. Túngarðr er þar afar þykkr, og auk þess hefir legið garðr frá túngarðinum og alla leið ofan að fljóti. Þetta er einhver hin stórkostlegasta tóft, sem eg hefi séð, og er þykt veggjanna undrunarverð. Ólíklegt er, að þær séu frá síðari tímum, enda hefi eg nú fundið svo margar slíkar tóftir, að þær hljóta að vera frá líkum tíma, því að ásigkomulagið er svo líkt, enda veit eg rök fyrir, að sumar þeirra eru frá fornöld, og á síðari tímum bygðu menn ekki slík einstök stórhýsi. Það er líklegt að minna húsið á þessari tóft hafi verið forhús til aðalhússins.

Fjórða fornbýlið fann eg á Krakalæk, rétt fyrir innan þingstaðinn í Fljótsdalshéraði, Krakalækjarþing (Þáttr af Þorsteini hvíta bls. 37) og verðr því lýst síðar. Fjögur fornbýli, sem gefa upplýsingar í þessu efni, hefi eg og fundið áðr sunnan og vestanlands, sem eg get leitt rök að, að sé með sínum fornu einkennum, og sögurnar tilgreina hverir þar hafi búið. Þannig hefi eg þá fundið fyrir víst 8 slík fornbýli, öll með sömu aðaleinkennum, eða þeirri einföldu húsaskipan, að einungis var ein stór bygging eða hús, annaðhvort með afhlutum eða útbyggingum, eða þá hvorutveggja. Verðr því ekki neitað, að þetta er þegjandi vottr um húsabyggingar í fornöld, og kemr vel heim við það, sem segir í Fljótsdælu hinni meiri bls. 36, og vanta þá ástæður fyrir að ætla að þetta sé ekki fornt. Nú kynnu menn að segja, að þessar tóftir sé ekki frá þeim tíma, sem hér ræðir um, enn þótt þær væri yngri, sýna þær eigi að síðr húsaskipun frá fornöld, því frá fornöld hljóta þær að vera. Eg hefi kannað og skoðað tóftir svo hundruðum skiftir frá fornöld og til síðari tíma, og ákveða sögurnar um aldr sumra þeirra, eða nær þær hafi lagzt í eyði. Þegar nú sögurnar greina um aldr sumra rústa, þá eru fylztu líkur til að aðrar tóftir, sem eru enn með sömu einkennum og í líkum jarðvegi, sé frá sama tíma. Það stendr líkt á með gamlar tóftir og aðrar fornmenjar, að með samanburði má fara mjög nærri um aldr þeirra, ef menn kunna eftir að taka.

Ef rita ætti um byggingar og húsaskipun hér á landi í fornöld, svo að það væri til verulegrar upplýsingar, þá er það aðal-undirstaðan, að rannsaka hinar fornu byggingaleifar, bæði

tóftir og aðra hluti sem þar til heyra og bera þetta saman við vorar beztu sögur og handrit.

Eg hefi lengi reynt að safna ýmsu, er lýtr að húsaskipun í fornöld, enn hefi ekki treyst mér til að skrifa um það efni fyrri enn rannsakað væri hið helzta, sem hér kynni að finnast af fornum tóftum. Á forngripasafninu í Reykjavík er og ýmislegt, sem lýtr að byggingum. Reynslan hefir sýnt, að sögur vorar verða ekki skildar, án þess að rannsaka sögustaðina verklega. Eg er kominn að þeirri reynslu, að hér á landi er mikið af forntóftum og öðrum byggingaleifum, og þegar lokið væri að rannsaka það til hlítar, mætti fá réttan grundvöll til að byggja á um húsaskipun í fornöld.

## Krakagerði.

(18. júlí).

Út frá Vífilsstöðum, nokkuð inn frá Krakalæk, í sundi bak við neðsta ás upp frá Lagarfljóti, er fornt býli, sem heitir *Krakagerði*. Þar eru tóftir margar og smáar utarlega á ungirtu svæði, sem mun vera fornt tún með garði umhverfis. Svo sem 20—25 faðma inn frá tóftum þessum er tóft ein ákaflega fornleg, niðrsokkin og útflött; tóftin snýr út og inn eftir héraðinu, og er 103 fet á lengd og 28—29 feta breið, að því er mælt verðr. Utarlega í tóftinni er milliveggr, og hefir myndazt við það ferhyrnt hús í útendanum; dyr munu hafa verið á milliveggnum, því að eigi sjást með vissu dyramót annarsstaðar á veggjunum í þeim enda tóftarinnar; þar á móti hafa verið dyr á eystra hliðvegg aðalhússins fast við milliveggin og líklega tvennar dyr aðrar, ef eigi þrennar, sé sumt af því eigi skörð, er fallið hafa í vegginn. Innri endi tóftarinnar er þó einkum sokkinn, enn tóftin virðist þó munu hafa verið svona löng, enda bendir framhald hliðveggjanna á að svo muni hafa verið. Vér sjáum því, að aðalhús tóftarinnar hefir verið feykilega stórt, og tóft þessi stendr alveg sér og engin hús eða mannvirki í kring, og er það sjáanlegt af áðrtöldu ásigkomulagi tóftarinnar, að hún hlýtr að vera frá fornöld.

## Krakalækjarþingið við Þinghöfða.

(18. júlí).

Þar sjást að minsta kosti 17 búðatóftir, og er afstaða þeirra sem hér segir:

Insta búðin (*1*) er næst þeirri stærstu, sem þar er, og mjög svo fornleg og sokkin í jörð; snýr í suðaustr og suðvestr; búðin er 48 feta löng og 18—19 feta breið; dyr á suðaustr-gafli miðjum. Búðin er eflaust frá fornöld. Um 33 faðma í norðr frá þessari búð er búð (*2*), sem er 33 feta löng og 19 feta breið. Dyr virðast hafa verið út úr vestra hliðvegg við suðrgafl, og snýr þannig frá norðri til suðrs. Tóftin er fornleg og heldr óglögg. Um 13 faðma í norðr frá þessari búð er tóft (*3*), sem snýr frá norðri til suðrs; hún er um 36 feta löng og 20 feta breið, Dyr á eystra hliðvegg við suðrgafl. Tóftin er eigi fult eins fornleg sem hinar. Um 14 faðma í norðr frá þessari búð er tóft (*4*) frá norðri til suðrs, 38 feta löng og 20 feta breið. Dyr helzt á eystra hliðvegg; tóftin er fornleg. Um 2 faðma lítið vestar enn í norðr er búð (*5*) frá norðri til suðrs, 30 feta löng og 22 feta breið; dyr á miðjum suðrgafli. Tóftin er fremr fornleg og útflött. Um 40 faðma í eigi fult suðaustr frá þessari búð, suðvestan undir Þinghöfðanum nær Lagarfljóti og norðvestarlega í Þingbrekkunni, er búðartóft (*6*) frá norðri til suðrs; hún er 30 feta löng og 18 feta breið. Dyr á syðra gafli; tóftin er fornleg, þó ber nokkuð á veggjum. Um 3 faðma í suðr frá þessari búð er búðartóft (7), frá austri til vesturs, 51—52 feta löng og 18 feta breið, að því er mælt verðr; dyr á syðra hliðvegg við eystra gaflhlað, að því er séð verðr. Tóftin er mjög fornleg og sokkin í jörð. Í austr frá þessari búð, mjótt sund í milli, eru tvær búðir (*8* og *9*) með sama gaflvegg í milli. Vestri búðin er 21 fet á lengd og nærri 17 feta breið; dyr á syðra hliðvegg við milliveggin. Eystri búðin er 33 fet á lengd og 18 feta breið. Dyr á syðra hliðvegg við eystra gafl. Búðartóftirnar eru allfornlegar. Um 7 faðma í norðr frá þessari búð (tvíbúðinni), hærra í Þingbrekkunni og fast við Þinghöfðann, er 47 feta löng búð og 19 feta breið, að því er mælt verðr. Dyr virðast helzt hafa verið á suðvestrhliðvegg við norðvestrgafl búðarinnar, eða þá rétt á móti á hinum hliðveggnum, enn það er þó ólíklegra, vegna þess að úr þeirri átt (norðaustri) eru verst veðr. Tóftin er ein af þeim fornlegustu og snýr frá norðvestri til suðaustrs. Um 3 faðma í suðaustr frá nr. 8—9 (tvíbúðinni) er búð (*11*), sem snýr í rétt austr og vestr, 39 feta löng að því er mælt verðr og 18 feta breið, enn breiddarmálið er óáreiðanlegt, því að suðrhliðveggrinn sést eigi, svo er hann sokkinn í jörð eða útflattr. Dyr sjást eigi. Búðin er einhver sú fornlegasta á þingstaðnum. Um 6 faðma í rétt vestr frá nr. 11 er 38 feta löng búð (*12*) og 21 fet á breidd, sem snýr í austr

og vestr. Dyr á miðjum vestrgafli. Búðin er nokkuð fornleg; þó sjást veggir glögt, þótt útflattir sé mjög. Um 5 faðma í suðr frá þessari búð er mannvirki, eða líklega endi af búð (*13*), sem snúið hefir frá norðri til suðrs, enn á syðri endanum eru tvær jarðgrófir svo lengd hennar verðr eigi ákveðin, enn á breidd er hún um 22 fet. Tóftarbrotið er fornlegt. Um 7 faðma beint í vestr frá nr. 12 er tóft (*14*), sem víða er sundrgrafin af flögum og þýfð mjög (hlaupin í þýfi), enn að því er mælt verðr virðist hún hafa verið um 20 feta löng og 16 feta breið. Dyr kunna að hafa verið á suðrgafli. Um 20 faðma í fult vestr frá nr. 14 er búð (*15*), um 28 feta löng og vel 17 feta breið, og snýr í suðvestr og norðaustr. Dyr á suðaustrhlið við suðvestrgafl búðarinnar. Búðin er fornleg líkt og hinar. Um 18 faðma í austr frá nr. 11 er búð (*16*), nærri því niðr við fjörumark Lagarfljótsins, sem snýr í suðvestr. Hún er um 40 feta löng og 21 fet á breidd, að því er mælt verðr. Dyr helzt á suðvestrgafli. Rétt við austrhornið á nr. 16 er tóft (*17*), sem virðist hafa verið lítil búð, enn nú mjög aflöguð, einkum eystri gafl; þó virðist búðin eigi hafa verið styttri enn 25 fet og 17—18 feta breið. Dyr virðast hafa verið á suðvestrhliðvegg við suðaustrgafl. Búðin snýr vel í fult norðvestr og er rétt á fljótsbakkanum.

Hér á þingstaðnum geta reyndar hafa verið fleiri búðir, og jafnvel á þrem stöðum sýndist votta fyrir slíku, enn eg þori þó eigi að fullyrða, hvort það eru mannvirki eða eigi.

Vallgrónar kolagrafir eru hér ótölu margar, og víða rétt innan um búðatóftirnar um allan þingstaðinn; bendir það eitt með öðru á aldr búðanna, að allr þingstaðrinn hefir vaxið skógi eftir að hann lagðist niður.

Fyrir utan og innan þingstaðinn eru mjög fornlegir og glöggir garðar neðan frá fljóti og upp á ásinn fyrir ofan þingstaðinn, og svo eftir ásnum; þó sést eigi eins glögt móta þar fyrir garðinum sem að utan og innan. Garðarnir eru hlaðnir beinir, og mun alt umgirta svæðið svara 2 til 3 vanalegum túnstærðum, líkt og þau gerast þar í Héraðinu.

## Hofteigr.

(21. júlí).

Bærinn í Hofteigi stendr fyrir norðan Jökulsá á Brú. Rétt fyrir framan túnið fellr á, sem kemr ofan úr heiði og heitir Staðará. Önnur á fellr á sama hátt ofan úr heiði skamt fyrir utan

Hjarðarhaga, sem er næsti bær fyrir framan Hofteig. Á milli þessara áa heitir *hofsteigr* enn í dag.

Breiddin milli þessara áa er stutt meðal-bæjarleið og er það breiddin á Teignum, sem að minsta kosti heitir svo upp á fjallsbrún, því þar eru kallaðar Teigsbrýr. Mestallr þessi Teigr er orðinn fyrir skömmu uppblásinn, einkanlega hið neðra; enn eins og spilda eftir með hlíðinni.

Upp undir Teigará og niðr undir Jökulsá er enn eftir löng og stór graseyri, og fögr brekka alllöng fyrir ofan. Niðri á þessari eyri er afarstór og fornleg tóft, sem enn í dag heitir *hoftóft*. Tóftin snýr nær frá austri til vestrs, eða út og inn dalinn; hún er bæði niðrsokkin og fornleg og vallgróin, þannig, að veggir tóftarinnar mynda sem ávala hryggi, enn þó er tóftin mjög glögg; hún skiftist í tvent, aðalhús og afhús, og er með svo ákaflega þykkum og breiðum *millumvegg*, að eg hefi aldrei séð slíkan, og er það glögt, að þar hafa aldrei verið dyr á. Lengd allrar tóftarinnar er 135 fet, þar af aðalhúsið 103 fet, mælt á miðjan millivegginn, enn afhúsið 32 fet, og er þetta 135 fet; breidd tóftarinnar er um 34 fet; og breiddin á milliveggnum, eins og hann lítr nú út, er 16 fet, og er hann öllu breiðari enn aðalveggir tóftarinnar yfir höfuð. Dyr hafa sjáanlega verið á aðalhúsinu út úr syðra hliðvegg við vestra gaflhlað, og engar aðrar dyr sýnast hafa á því verið. Dyr úr afhúsinu eru að vísu nokkuð ógløggvar, enn þó mun það víst, að þær hafi verið á syðra hliðvegg, rétt við austr-gaflhlaðið. Veggir tóftarinnar eru, eins og þeir líta nú út, 2—3 fet á hæð, að því er mælt verðr. Eg skal taka það fram, að afhúsið er í austrenda tóftarinnar, enn aðalhúsið í vestrenda, og er það sem afarstór skáli, þar sem hann er 103 fet á lengd, eins og áðr er sagt, fyrir utan afhúsið. Um 100 föðmum fyrir utan hoftóftina kemr lítill lækr ofan úr hlíðinni, og rennr í bugum ofan eyrina og niðr í Jökulsá. Þessi lækr ber nafnið *Blótkelda*, og er aldrei annað kallaðr, og eru hvergi í honum neinir pyttir, er niðr á eyrina kemr. Þetta nafn á læknum er einkennilegt, og kemr heim við það sem áðr hefir verið sagt um hofin.

Það er sjáanlegt, að sá fegrsti staðr á öllum þessum »hofsteig« hefir verið valinn til að byggja hofið á; grundin er svo nokkurum hundruðum faðma skiftir á lengd, öll grasi vaxin og slétt að mestu; grasbrekka fyrir ofan alla grundina. Þetta svæði hefir og haldizt óblásið, eins og áðr er sagt, og fjallshlíðin fyrir ofan í teignum er falleg og víða grasi vaxin upp á brún. Hvað

hoftóftinni sjálfri viðvíkr er hún einhver sú lengsta af öllum þeim hofum, sem eg hefi áðr fundið og rannsakað, og önnur lengsta tóft sem eg hefi fundið hér á landi; hún hefir og öll sömu einkenni sem aðrar hoftættur, sem eg hefi fundið og talað um í Árbókum félagsins. Það hefði verið ákaflega mikið verk að rannsaka svona stóra tóft með grefti, enn eg sá það, að þess var ekki svo mjög mikil þörf, þar sem eg hafði grafið út 7—8 hoftóftir áðr og þessi tóft hafði öll hin sömu höfuðeinkenni. Þar að auki talar Landnáma bæði um teiginn og hofið, og alt þetta ber hið sama nafn enn í dag, og stendr heima við söguna. Þarf því hér á engan hátt frekari rannsóknar við. Þessi merkilega hoftóft, sem eg verð að álíta eina þá merkustu, sem eg hefi fundið og tekr öllum öðrum fram að lengdinni til, styrkir því alt það sem eg hefi áðr sagt hofunum viðkomandi, einkum hvað löguninni viðvíkr, bæði aðalhúsi, afhúsi og hinum breiða millivegg. Vér sjáum hér því eitt órækt merki og þegjandi vott hinnar afarlöngu og stóru fornbyggingar, sem bygð er einungis sem eitt hús og svo skift í sundr með millumvegg, enda hefi eg fundið margar slíkar fornbyggingar í Austfirðingafjórðungi í þessari ferð. Sýnir alt þetta hversu húsaskipunin hefir verið einföld enn stórkostleg í fornöld, því þegjandi vottrinn lýgr sízt. Um aldr þessarar tóftar er öllum auðsætt, og aldrei hefir hér nokkurn tíma verið bygt ofan á síðan. Það er því ljóst, að tóftir þær sem eru í líkum jarðvegi og þessi og eru álíka glöggvar, hljóta allar að vera frá sama tíma, enda hefi eg nóg til samanburðar af forntóftum, sem bæði eru eldri og frá sama tíma og yngri.

Eg skal ennfremr geta þess, að víða fann eg til grjóts í veggjum tóftarinnar, bæði sást vottr á því i millumveggnum og veggjunum umhverfis og víða fann eg grjót niðr í, er eg kannaði það með stálstaf mínum; það má segja um þessa tóft, eins og aðrar, sem eg hefi fundið, og eru orðnar svo margfaldlega jarðgrónar í hörðum jarðvegi, að merki þeirra munu sjást um margar aldir hér eftir; það munu þeir sanna sem þá lifa, ef þær ekki blása upp.

## Hof að Hrafnabjörgum.

(22. júlí).

Í túninu fyrir utan bæinn á Hrafnabjörgum er forn tóft, sem kölluð er *hof*. Hún er nær því ferskeytt og kringum 8 faðma á hvern veg. Dyr eru sjáanlegar á neðra enda tóftarinnar. Vegg-

ir ákaflega þykkvir og vallgrónir. Yfir þvera tóftina sýnist jafnvel hafa verið millumveggr, enn hann er svo óljós, að ekki verðr með vissu um það sagt. 7—8 faðma út frá hoftóftinni er girðing allmikil, og er hún kölluð *blóthringr*. Girðing þessi er á annan veginn rúmir 20 faðmar, enn á hinn veginn fullir 16 faðmar. Girðingin er ekki kringlótt, því að sú hliðin er beinni, sem að hofinu snýr. Bæði eru mannvirki þessi fornleg og hafa borið þessi nöfn, svo lengi sem menn vita til.

## Hellisheiði o. fl.

(23. júlí).

Það er ekki rétt, sem sumir hafa ætlað, að þeir Þorkell Geitisson og Bjarni Broddhelgason hafi farið yfir Hellisheiði áðr enn þeir börðust í Böðvarsdal. Hellisheiði er yzti fjallvegr milli Fljótsdalshéraðs og Vopnafjarðar og ofan hjá bæ þeim, er hét Þýfi (enn er nú í eyði) og rétt gagnvert Eyvindarstöðum. Heldr hafa þeir hlotið að fara yfir fjallið miklu innar, út og upp frá Sleðbrjótsseli, og komið ofan í svo nefndan Frökkudal, sem er dalverpi suðr úr Böðvarsdalnum. Sá vegr er miklu styttri, þegar komið er innan af Fljótsdalshéraði, og fara á til Vopnafjarðar, og er sú leið farin enn í dag af gangandi mönnum, enn þeir Þorkell vóru gangandi, eins og sagan segir, því snjór var mikill. Heiðin er í sögunni ekki nefnd neinu sérstöku nafni, sem þó mundi hafa verið gert, ef um Hellisheiði hefði verið að ræða. Enn þessi fjallvegr, sem farinn er ofan í Frökkudal, hefir heldr ekkert nafn. Bær sá, er sagan talar um, enn nefnir ekki neinu nafni, sem Þorkell Geitisson gisti á rétt við heiðina, hefir eflaust verið þar sem nú er kallað Laugarsel; þar sést enn til húsatófta, og vottar fyrir túngarði á tvo vegu. Frá Laugarseli og ofan að Eyvindarstöðum er rösk bæjarleið, og kemr það beint heim við orð sögunnar, og er hægt að tiltaka nokkurn veginn svæðið þar sem þeir börðust við túngarðinn á Eyvindarstöðum, því að nokkuru innar í túninu enn túngarðrinn er nú á Eyvindarstöðum, er brot af gömlum túngarði, sem liggr ekki alveg niðr að ánni, eins og sá sem nú er, enn beygist út fyrir neðan bæinn (nú í miðju túni). Blasir því beint við frá bænum svæði það, sem bardaginn hefir verið á, og er framan við túngarðinn nær því niðr við ána, fram undan fjárhúsinu, sem stendr niðr í túninu. Alla þessa staði hefi eg athugað, og farið inn dalinn, alt inn undir Frökkudal, og skoðað Laugarsel. Þegar þannig er skilin sagan, og að þeir Þor-

kell hafi farið þessa leið, sem hlýtr að vera ljóst, þá er vel og skilmerkilega sagt frá þessum viðburði í sambandi við þær staðarlegu lýsingar sem hér eru. Enn að Þorkell hafi farið Hellisheiði getr ekki staðizt vegna þess, hve skamt er á milli bæjanna Þýfis (eyðibæjarins) og Eyvindarstaða.

Eg fór yfir Hellisheiði, sem áðr er sagt, er hún ákaflega hár fjallshryggr og brött á báðar hliðar, og kom eg síðan ofan í Böðvarsdal, sem er fagr dalr ekki alllangr. Í dalnum standa að eins 2 bæir, sem nú eru bygðir: Eyvindarstaðir, sem er lítill bær vestanvert í dalnum yzt, eins og sagan segir, og að austanverðu dalsárinnar Böðvarsdalr; er það stór jörð og falleg. Yzt í fjallgarðinum, sem skilr Jökulsárhlíð og Vopnafjörð, liggr Fagridalr; er milli hans og Böðvarsdals mjór fjallhryggr. Fagridalr liggr í suðr frá sjó, og liggja drög úr honum alt á austrbrún Hellisheiðar. Sést af Hellisheiði, þar sem hún er hæst, yfir mestan hlut hans. Fagridalr er fallegr dalr, einkum að vestanverðu. Stendr þar enn bær að austanverðu árinnar; þar er sauðland ágætt.

Jökuldalr, sem getr um í þætti Þorsteins uxafótar, er allr annar dalr, enn hinn nafnkenndi Jökuldalr, sem liggr upp af Fljótsdalshéraði. Það er lítilfjörleg dalskora, að eins grasi vaxin utan til, sem liggr úr Fagradal og vestr í Hellisheiði. Liggr vegrinn yfir daladrögin uppi á háheiðinni. Þar norðanvert í daladrögunum, austan undir hæstu fjallaröðinni í halla miklum rétt við veginn, er lítill klapparhóll, og er það »Brynjarshaugr», sem Þorsteins þáttr talar um. Ber hann nafnið enn í dag, og þekkir hann nærri hvert mannsbarn þar í grend. Undraði mig stórlega, að þessi forneskjulega og skáldlega saga skyldi hafa myndazt um þessa grjóthæð upp á reginfjalli. Upp úr haugnum er lítil klöpp, og varða á, og lítil grastorfa austan undir vörðunni; settist eg þar stundarkorn, ásamt Jóni alþm. á Sleðbrjót, sem fylgdi mér yfir heiðina, því torfan er aðeins svo stór, að 2 menn geta setið á henni. Á þessari litlu torfu hefir Þorsteinn orðið að sofa, ef maðr vill binda þessa sögu við nokkurn sögulegan sannleika. Annarsstaðar utan í hólnum er lítil klöpp; að öðru leyti er þetta ekkert annað enn grjóthóll, ekki stærri enn svo, að haugbúarnir sem vóru 24, gátu að eins haft þar nægilegt rúm. Eg lýsi þessu að eins til gamans, af því sagan er svo forneskjuleg og falleg, eins og kunnugt er.

## Böðvarshaugr.

(23. júlí).

Böðvarshaugr stendr í ofanverðum Böðvarsdal uppi á svo kölluðum Laugarhólum, sem er hálendi, er gengr þar úr fjallahnjúknum niðr í dalinn. Þetta er afar-stór hæð, mestöll grasi vaxin. Hún er nokkuð hryggmynduð, og snýr út og inn eftir dalnum. Við Jón alþm. mældum hæð þessa við rætrnar, og er hún kring um 50 faðma á lengd, að því er mælt verðr, enn breiddin er miklu minni. Til beggja enda liggur eins og tagl úr hæðinni. Hæð þessa svo kallaða haugs gat eg ekki mælt, enn minna enn 6—8 mannhæðir er hann naumast, og jafnvel meir, þar sem hann er hæstr. Ofan við hauginn er slétt flöt grasi vaxin, mjög falleg, og yfir höfuð er hér mjög fagrt uppi í dalnum, enda er dalrinn allr með sléttum eyrum meðfram ánni. Það er óhugsandi, að hér sé mannaverk á þessum haug, þar sem stærðin er svo ákafleg, enn eg skal þó láta hvern ráða sinni meiningu um það, enn get þess að eins, að frá Böðvarsdal og upp að þessum svo kallaða Böðvarshaug er óefað ³/₄ hlutar úr mílu, og jafnvel meira. Það er auðséð, að á hinu áðrnefnda Laugarseli er fornt bæjarstæði. Þar sést ljóslega upphækkun undan bænum; er þar og alt vallgróið; tóft mikil og ákaflega fornleg er skamt frá bæjarstæðinu; sáum við þar votta fyrir fornum túngarði langt fyrir framan selið, sem liggr þar þvert ofan á eyrina, og hefir hér verið allstórt tún.

Eg skal geta þess, að rétt fyrir utan Laugarsel rennr gil þvert ofan úr fjallinu og niðr í ána, sem kallað er Laugará, og hefir það rutt fram grjóti miklu og eyðilagt mikinn hluta túnsins á Laugarseli, og bærinn því tekizt af. Utan við ána er hálendi nokkurt, er gengr niðr úr hlíðinni, enn eyrar fyrir utan, á leiðinni til Eyvindarstaða, og liggja þær lægra; þess vegna sést ekki frá selinu láglendið í dalnum, og kemr það því heim við orð sögunnar, sem bezt má verða, því að svo er að sjá, sem Þorkell hafi ekki séð til ferða Bjarna, þegar hann var kominn fram hjá bænum, og þess vegna þurfti hann að ganga aftr á ferilinn til að leita að nýjum mannasporum. Þess skal getið, að frá dalsmynninu, þar sem þeir Þorkell hafa komið ofan af heiðinni, er svo sem lítil bæjarleið til bæjarins, sem stendr inst í dalnum, þar sem sléttlendið byrjar. Þessu öllu ber svo vel saman við söguna, sem bezt má kjósa. Eg skal enn geta þess, að hinum megin í dalnum, skamt frá Eyvindarstöðum, er önnur hæð,

svipuð Böðvarshaug, sem kölluð er Eyvindarhugr. Sýnir það enn ljósar, að þetta er alt ímyndun og tilbúningr um haugana.

## Krossavík í Vopnafirði.

(25. júlí).

*Krossavík* stendr að sunnanverðu við Vopnafjörð, rétt á móti kaupstaðnum. Hátt fjall er fyrir ofan bæinn með miklum klettum; beint upp undan bænum er stór gjá, sem kölluð er *Grímsgjá*, og er sagt að hana megi fara upp. Litlu utar í hlíðinni eru tveir hjallar, sem kallaðir eru *Grímsbygðir*; engir eru þar aðrir hjallar. *Krumsholt* heitir enn í dag stutta bæjarleið fyrir utan Krossavík; þar sést fyrir gömlum túngarði, og hefir túnið ekki verið stærra enn svo sem 1½ dagslátta; það er löngu í eyði. — Í Krossavík er fallegt og túnið afarstórt.

## Hof í Vopnafirði.

(27.—28. júlí).

Um 150 faðma beint upp frá kirkjunni á Hofi, sem stendr fyrir utan bæinn uppi á hálendinu, þar sem fallegast er og víðsýnast, er tóft ákaflega mikil og stórkostleg, sem enn í dag ber nafnið *hoftóft*. Tóftin snýr meðfram brekkunni, eða út og inn eftir héraðinu, þannig, að hún snýr í norðaustr og suðvestr. Öll lengd tóftarinnar er 119—120 fet, að því er mælt verðr. Breidd tóftarinnar virðist vera um 34 fet. Afhús tóftarinnar, sem virðist ákaflega stórt, er í ytri enda; það er 40 fet á lengd á miðjan millumvegg, að því er mælt verðr, því að öðrum megin virðist hafa verið stungið úr honum, þeim megin sem að afhúsinu veit. Glöggvar dyr sjást út úr hliðveggnum við hið norðeystra gaflhlað. Þannig hefir þá aðalhúsið verið 79—80 fet. Í innri enda tóftarinnar hafa því miðr verið bygðar smátóftir; þar af er ein stærst, sem liggr þvers um, og aðrar tvær mjög litlar til hliðar, enn þrátt fyrir það má sjá ytri brúnina á efra hliðvegg hoftóftarinnar, svo að óhætt mun vera að ákveða lengdina eins og hér er gert. Eitthvert jarðrask hefir verið gert í ytra hlut tóftarinnar, enn eigi að síðr má glögglega sjá þann hlutann og gaflhlaðið. Dyr á aðalhúsinu sjást ekki vegna þeirra tófta, sem bygðar hafa verið ofan í, enn það er víst, að dyrnar hafa verið úr hinum neðra hliðvegg, nær hinu innra gaflhlaði, því að engar dyr sjást á veggnum þar til hinar nýju tóftir byrja. Við efra

hornið á afhúsinu, sem snýr upp í brekkuna, sýnist sem grafinn hafi verið djúpr brunnr; er vatn í honum enn í dag; hlýtr hann að hafa verið djúpr, því að hér er beinhart harðvelli og enginn lækr í nánd. Úr brunninum hefir grafið sig farvegr inn í sjálft aðalhúsið, sem er eins og lítið afrensli, enn áðr mun þetta afrensli hafa verið rétt fyrir utan húsgaflinn. Brunnr þessi virðist hafa verið *blótkelda*, sbr. blótkeldur þær, er eg hefi fundið við önnur hof, bæði við hofið í Ljárskógum, og síðan við hofið í Hofteigi, sem ber nafnið enn í dag. Blótkelda þessi hefir að líkindum verið hlaðin að innanverðu úr grjóti, sem nú er fallið niðr. Eg fekk mér menn á Hofi til að ausa upp brunninn, taka upp úr honum lausagrjótið, leita að hleðslu og kanna hann innan, og fundum vér þar ljósan vott hleðslu, er sumstaðar stóð óhögguð, og vatnið bunaði upp. Sýnir alt þetta, að brunnr þessi hefir verið gerðr af manna höndum, og að líkindum hafðr fyrir blótkeldu, þar sem hann er grafinn rétt hjá afhýsinu, þar sem goðin vóru. Þess má geta, að túnið á Hofi hefir í fornöld verið afarstórt, og náði alt upp undir ásinn fyrir ofan hoftóftina, sem nú heitir Vörðuás. Þar liggr túngarðrinn, og er hann ákaflega þykkr, og eftir því hefir túnið þá verið fullum helmingi stærra enn nú, og er það þó kringum 20 dagsláttur.

Veggir tóftarinnar eru bæði breiðir og háir og fornlegir, og virðist efri veggrinn hlaupinn sundr inn í afhúsið, enn gólfið í því liggr nú lægra, sem líklega stafar af því, að vatn stendr í henni, er rennr úr blótkeldunni. Þetta kemr ágætlega heim við það þegar Geitir náði líkunum á Hofi (Vopnf.s. bls. 15—17). Þannig hagar til, að bærinn stendr á hæð, sem er slétt ofan, og fyrir neðan túnið er brekka mikil, enn sléttar eyrar fyrir neðan. Frá eyrum þessum gengr geil ein djúp mjög, eða einskonar dalverpi, að utan og ofanverðu kringum bæinn og túnið á Hofi, eins og það er nú. Niðri í geil þessari hefir að líkindum verið tóft sú, er Broddhelgi kasaði líkin í, og er geil þessi því skilyrði fyrir því, að Geitir gæti náð líkunum. Hefir hann látið halda af eyrunum eftir geilinni, fyrir utan túngarðinn, eins og sagan segir, því eftir geil þessari má fara með svo marga hesta sem vera skal, án þess nokkuð sjáist, enda áttu þeir Geitir og Helgi þá í þófi sunnanvert við bæinn, eins og sagan segir, og því í gagnstæðri átt við það, er hinir fóru. Sá Broddhelgi þá því ekki fyrri enn þeir vóru komnir æði-langt út og austr frá bænum. Enn þar sem sagan talar um skóg, þá hefir það verið gagnvert Hofi, hinum megin Hofsár, enda sést þar enn votta fyrir smáskógi.

Enn inni í Sunnudal er nú enginn skógr, þótt sagan tali um stóran skóg þar, því að þeir drógu hvert tré heim að Hofi (bls. 14).

*Tóftavellir.*

Sagan segir að Tóftavellir, þar sem Þorsteinn hvíti bjó, áðr hann kom að Hofi, hafi verið fyrir utan Síreksstaði. Fyrir utan þann bæ, sem enn ber sama nafn, og stendr á nyrðri bakka Sunnudalsár, sjást enn glögg merki af fornum bæjartóftum á sléttum bletti niðri við Sunnudalsá, og grasbrekka fyrir ofan; þar eru nú beitarhús frá Hofi. Vellir þessir hafa verið miklu stærri áðr fyrri, því að Sunnudalsá mun þá hafa runnið nokkuru austar, enn kastað sér síðan að nyrðra landinu, og brýtr það nú árlega, enda benda hinar miklu grjóteyrar þar á, að svo muni hafa verið. Útundan innri beitarhúsunum var kringlótt tóft, mjög stór, og hafa veggirnir verið afarháir, því að enn ber hátt á veggjarústunum. Þar í túninu eru og margir garðar fornlegir og niðrsokknir.

*Hestarétt Broddhelga*(?).

Á Hofi er fallegt heimreiðar. Heim túnið, þegar að utan er komið, liggja traðir allbreiðar, og sýnast þær vera fornlegar. Á hægri hönd traðanna er afarstór ferhyrnd girðing, um 20 faðma á annan veg, enn 12 á hinn. Veggir þykkvir og fornlegir, enn túngarðr og traðir mynda tvær hliðar, og eru þar stórar dyr inn úr miðjum hliðveggnum. Menn hafa getið þess til, að þetta mundi forn hestarétt, og er það ekki ólíklegt, ella veit eg ekki hvað það skyldi hafa verið.

Fyrir ofan bæinn, í framhaldi af geilinni sem áðr er nefnd, er kringlótt tóft allmikil, með veggjum miklum og vallgrónum. Stórar dyr eru á tóftinni, er snúa til suðrs; hún er um 9 faðma í þvermál. Ekki verðr séð til hvers þessi girðing hefir verið höfð. Enn tóftin er nú kölluð »Skollahringr«.

Nokkuru vestar og ofar er önnur fornleg girðing, er sýnist helzt hafa verið ferskeytt, á líkri stærð og hin kringlótta, og liggr hún fast við hinn gamla túngarð og miklar dyr suðr úr. Er því all-líklegt, að hún hafi einhverskonar rétt verið, t. d. nautarétt.

*Svartsfell.*

Smjörvatnsheiði heitir enn í dag, svo sem kunnugt er, milli

Jökuldals og Vopnafjarðar. Uppi af Sunnudal þar í heiðarbrúninni er fell, sem enn í dag heitir Svartsfell. Frá Svarti og vígi hans er greinilega sagt í Vopnf.s. (bls. 4). Broddhelgi var þá 12 vetra, og var það mikið þrekvirki, því Svartr var »rammr at afli ok vígr vel«, og var það meira enn þegar Bolli Bollason lagði í gegnum Helga Harðbeinsson, undir þeim kringumstæðum, er þar vóru og eg hefi áðr frá skýrt, og trautt hygg eg að menn geti hiklaust kallað alt slíkt ósannindi í sögunum. Kunnugir hafa sagt mér, þá er eg var á Hofi, að enn sæist votta fyrir hreysi Svarts norðan til í fellinu, uppi í gnípunni, enn með því að eg sjálfr hafði ekki tíma eða kringumstæður til að leita að því, þá hefi eg beðið séra Jón prófast á Hofi að komast eftir því við tækifæri, og ef það reyndist satt, þá að senda mér um það greinilega skýrslu.

## Sunnudalsþing

(28. júlí).

Eg fór frá Hofi og upp í Sunnudal til að rannsaka þingstað þar og fleira. Inn af Vopnafirði eða héraðinu ganga dalir tveir; Hofsdalr er hinn nyrðri, sem er stærri og fjölbygðari, þar í er hinn gamli og merkilegi bær Bustarfell; hinn dalrinn gengr fram sunnar og liggr meira til suðrs. Þessi dalr er nú kallaðr Hraunfellsdalr, enn hét áðr Sunnudalr, eins og Vopnfirðinga saga sýnir. Utan til í dalnum, austanmegin Sunnndalsár, stendr bærinn Sunnudalr, litlu innar enn andspænis Hofi og nærfelt í hásuðr þaðan. Í Sunnudal bjó Þórarinn faðir Þorsteins stangarhöggs, er vann fyrir búinu. Þeir vóru því nábúar Bjarni Broddhelgason og Þorsteinn.

Fyrir framan bæinn í Sunnudal, fram undir túngarði, er einstakr hóll, toppmyndaðr; þar stendr á lítill tóftarkumbaldi, og mun þetta vera hóll sá, er þeir börðust á Bjarni Broddhelgason og Þorsteinn, eða háðu einvígið, því að lækjarspræna rennr þar niðr rétt fyrir framan túngarðinn, og er það sá lækr, sem sagan nefnir, og enginn annar lækr er þar til í túninu. Hóll þessi mun vera 70—80 faðma frá bænum. Annars er þáttr Þorst. stangarh. mæta vel sagðr, og stendr það alt heima, er hann talar um, að því er séð verðr.

*Sunnudalsþing* hefir á sínum tíma verið þriðja þingið, eða hið norðasta í Austfirðinga fjórðungi. Það verðr ekki efazt um, að þingstaðrinn hafi verið nálægt bænum Sunnudal, þar sem það

er kent við bæði bæinn og dalinn; þingstaðr þessi er nú orðinn ógreinilegr, og er það að vísu eðlilegt, þar sem hann hefir ekki verið notaðr síðan áðr enn Járnsíða var rituð, og líklega ekki síðan löngu fyrri, enda talar Vopnfirðingasaga um að það þing var aftekið, enn hvort það hefir verið nema í bráð, sést ekki, enn hvergi finst þess síðar getið.

Við leituðum nákvæmlega að þessum þingstað, því að séra Jón prófastr á Hofi var með mér, er þar er orðinn gagnkunnugr og einnig bóndinn í Sunnudal; talaði eg og við fleiri kunnuga menn, er þar vóru uppaldir í grend. Okkr kom loks saman um, að þingstaðrinn hefði verið svo sem stekkjarveg inn frá bænum í Sunnudal; þar er bæði einna fallegast, þurlendast og sléttlendast, enda sáum við þess töluverð merki, að þingstaðrinn hefir hlotið hér að vera, enn þessi staðr er orðinn svo umbreyttr, vegna þess fyrst, að þar hafa verið bygð stór beitarhús á tveimr stöðum, og þar að auki víða stungið upp og rist, og í öðru lagi eru þar margar smátóftir hingað og þangað, sem bygðar hafa verið á síðari tímum, og lítr út fyrir að alt þetta hafi verið bygt ofan í hinar gömlu búðatóftir, og að þingstaðrinn hafi eyðilagzt á þennan hátt, með því svo langt er liðið síðan hann var notaðr. Þó skal eg geta þess, að hjá beitarhúsunum sýnast leifar af tveimr gömlum tóftum, önnur heil, enn brot af hinni aftr undan beitarhúsunum. Þar að auki er önnur tóft skamt utar, nær bænum Sunnudal, hjá læk þeim er þar fellr beint niðr. Þessi tóft sýnist vera fornleg, og margar aðrar tóftir geta þar hafa verið, sem bygt hefir verið ofan í, eins og áðr er sagt. Eftir því sem næst verðr komizt, hefir þingstaðrinn ekki verið innar í dalnum, og er það heldr ekki vel eðlilegt, og fyrir utan bæinn hefir hann ekki verið, því þar eru mestmegnis mýrar tómar, og þeir kunnugu menn, sem við töluðum þar við, gátu hvergi bent á, að þingstaðrinn hefði verið annarsstaðar, eða að nokkursstaðar annarsstaðar fyndust nein merki um hann.

Eg hefi þá rannsakað alla þá fjóra þingstaði, sem Austfirðingasögur tala um í Fljótsdalshéraði og Vopnafirði, og er Krakalækjar eða Þinghöfða þingstaðr sá merkasti og glöggvasti af þeim öllum. Hefir honum ekki verið raskað hið minsta. Hann er og gamall, og að því leyti merkilegr, að Járnsíða nefnir hann ekki og að hann er aldrei síðan nefndr.

## Helga haugr Droplaugarsonar.

Maðr sem eg talaði við í Vopnafirði, og Sigurðr heitir Vilhjálmsson, hefir verið 4 ár á Eyvindará og er mjög kunnugr þar, segir, að haugr Helga Droplaugarsonar sé þar sýndr enn í dag, og beri nafnið *Helgahaugr*. Er hann í suðvestr frá bænum, svo sem 6—7 faðma fyrir innan þann túngarð, er nú er, suðr af fjárhústóft, sem stendr á háum hól í túninu, niðr frá bænum. Það er mælt að bærinn hafi áðr staðið litlu neðar enn nú, utanvert við götuna, er liggr niðr frá bænum, og þá verðr haugrinn í suðr frá þessum gamla bæ, eins og sagan segir. Á efra vallarpartinum sést móta fyrir fornum túngarði, sem liggr í stefnu lítið eitt fyrir innan hauginn, svo að hann hefir verið utan túns, sem sagan segir, enn á neðra parti túnsins, fyrir neðan götuna, er garðrinn nú horfinn, eða þar sem haugrinn er. Haugr þessi er 2—3 faðmar í þvermál, að sögn þessa manns; hann er lágr og niðrsokkinn; í kringum hauginn sýnist vera grjótlag, og i einum stað lagt sem í röð, og hér og hvar upp úr honum sést á grjót. Þar sem gamli bærinn stóð, er sem upphækkun eða tóftamót.

---

# Rannsóknir á vestrlandi 1891.

Eftir

**Sigurð Vigfússon.**



## Við Hafragil í Svínadal.

(25. ágúst).

Í hinu bezta hdr. af Laxdælas., það sem það nær (»Reader«), segir svo um staðinn þar sem Kjartan féll, að þá hafi gatan legið yfir gilið ofarlega með hlíðinni. Þetta er miklu réttara og fullkomnara, enn í öðrum útgáfum sögunnar. Nú liggr vegrinn yfir Hafragil þar sem það fellr í ána, og svo að vestanverðu við ána á löngum kafla, þar sem hann lá áðr hinum megin, eins og áðr er sagt. Eftir Laxd. hefir því ekki verið hægt að ákveða staðinn þar sem Kjartan féll, því að frá brekku þeirri, er fyrst sést norðr á láglendið í dalnum og þar sem Bolli sat, eru víst meir enn 100 faðmar ofan að á, þar sem gatan nú liggr yfir gilið. Eg athugaði þetta nákvæmlega og skrifaði alt upp á staðnum. Fáa faðma frá hlíðinni hagar svo landslagi, að gatan hefir legið ofan í gilið og yfir það þar, og sjást þar enn glöggvir götuslóðar. Ofar getr þetta ekki hafa verið, því að þá taka við snarbrött holt og sumstaðar klettar. Neðar getr það ekki heldr hafa verið, því að þar hagar svo landslagi. Að norðanverðu upp með gilinu, þar sem gatan hefir verið, er grasbrekka ekki allstutt. Þangað sáu þeir Kjartan ekki fyrri enn þeir komu á melbarðið og riðu ofan í gilið; undir eins og Kjartan kom yfir gilið, eins og sagan segir, hefir hann hlaupið af baki. Lítill grjóthóll er rétt fyrir neðan þar sem gatan hefir legið; þar liggja margir stórir steinar, sem eg hygg vera leifar af steini þeim er sagan getr. Á þessari hæð hefir verið dálítið vígi. Upp með gilinu að norðan er brekka sú, er Bolli hefir setið í, því einmitt þá fyrst er

hann hefir gægzt upp á holtið, hefir hann séð til ferða þeirra Kjartans á láglendinu norðan eftir dalnum. — Þessi staðr er þannig nú ákveðinn, samkvæmt orðum sögunnar og landslagi.

Eg leitaði að því, hvar bærinn *Hafratindar* hefði staðið, á stóru svæði hér umhverfis, enn fann engin vegsummerki. Þar er og víðast mýrlent, og óhaganlegt bæjarstæði, nema spottakorn fyrir neðan Norðrkot; þar eru upphækkaðar móarústir með ánni, einkum á einum stað, og gæti þar hafa verið hentugt bæjar- og túnstæði. Hvergi á öllu þessu svæði er jafnbyggilegt og fallegt og hér, enda blasir Svarthamar þar við uppi á brúninni í austnorðr, og hefir þar líklega áðr heitið Hafratindar

Það er alls ekki ómögulegt, að einhvern tíma hafi heitið *Norðrsel* (eins og sagan talar um) sunnantil í hólunum fyrir norðan Hafratinda, eða þá neðar og nær ánni, því þar eru grasbrekkur, og var eg ekki fjarri því, að eg fyndi þar á einum stað vott mannvirkis. Vestanvert við ána sunnantil heita Kistuhólar, og er óhugsandi að þeir Þorkell hvelpr hafi skilið við þá Kjartan, fyrr enn þeir komu suðr úr þeim og sléttlendið byrjar, því á milli hólanna er nokkur mjódd á dalnum, og ekki ólíklegt til fyrirsátrs, enn úr því hefði mátt virðast óttalaust. Það mælir því margt á móti því, að Norðrsel hafi verið fyrir norðan Kistuhóla og vestan ána, eins og eg hefi heyrt suma geta til.

## Bollatóftir.

(26. ágúst).

Eg fór upp í *Sælingsdal* og alla hina sömu leið og þeir Halldórr riðu til Bolla. *Yxnagróf* er grashvolf, rétt þar sem hlíðin byrjar. *Ránarvellir* eru nú grjótbreiða. *Hamarengi* er niðr við ána heimantil gegnt selinu. Það er réttara sem segir í sögukaflanum í »Reader» um *grófina*, þar sem þeir Halldórr sátu; hún er grashvolf upp undir hlíðinni á móti Bollatóftum, heimantil við grjótbreiðuna miklu, sem þar er; í grófina sést ekki frá Bollatóftum. Þarna gátu þeir Halldórr leynzt með marga hesta, enn hvergi annarsstaðar þar á móti; þó gátu þeir séð, er húskarlar fóru frá selinu, með því að ganga nokkuð til.

## Hvammr í Dölum.

Eg fór ofan að Örriðaárósi, og prestrinn séra Kjartan í Hvammi með mér, bæði til að athuga Auðartóftir, sem sagan

nefnir og Auðarnaust og Auðarstein, enda þótt sagan nefni hvorugt þeirra. Þetta Auðarnaust hefi eg talað um í Árb. 1882; það stendr að austanverðu við Hvammsá (Örriðaá) á háum bakka. Það af naustinu, er sést, er ákaflega vallgróið með þykkvum veggjum og hefir það verið hlaðið úr grjóti, og sjást steinarnir upp úr. Það er auðséð, að þetta eru leifar af nausti, því það stendr ekki í sambandi við neitt annað, enn áin hefir brotið framanaf því, svo að ekki er nú eftir nema um 6 faðmar. Að líkindum hefir legið hér inn ós (Örriðaárós, sem sagan talar um), enn að vestanverðu ganga fram miklar eyrar og sléttar langt fram að sjó, þannig að vík verðr upp að naustinu, sem nú er hálfuppfylt af grjótmöl, beggja megin árinnar, enn sjór fellr þó upp undir naustið um stórstraumsflæði.

12—13 faðma upp og vestr frá naustinu eru ákaflega miklar upphækkaðar móarústir. Á einum stað, fast við árfarveginn, sýnist móta fyrir stórri og langri tóft, sem snýr upp og ofan, þannig að beggja megin eru háir þúfnagarðar, enn laut eftir miðjunni, nokkurn veginn slétt í botninn, og virðist svo sem þverveggr hafi verið að neðanverðu. Fyrir neðan hann slær mannvirki þetta sér út, þannig að það verðr þar miklu breiðara enn efri hlutinn, hvort sem það er af því, að þessi endi hefir upprunalega haft aðra lögun, eða áin, sem brotið hefir af annað hornið, hefir með einhverju móti aflagað hann. Alt þetta mannvirki sýnist hafa verið nálægt því 12 eða 14 faðmar á lengd. Þúfnaraðirnar eru mjög svo fallnar út og inn, enn þó nokkurn vegin beinar á hinum efra hluta. Við grófum niðr á 3—4 stöðum, og var alstaðar grunt niðr að fastri og harðri möl; einkum í efri hlutanum var holan stærst og dýpst. Fundum við þar bleikleita eða öllu fremr svarta gólfskán, sem lá í verulega föstum lögum og flísaði sig sundr, og á einum stað sýndist okkr vera leifar af tré, enn það var svo ákaflega fúið, að það datt alt í sundr. Við þetta vóru aðrir 2 greindir menn, og kom okkr öllum saman um, að þetta væri veruleg gólfskán með sínum glöggu einkennum. Með því nú, að það eru ljós orð sagnanna, að Auðartóftir væri við Örriðaárós, þá stendr þetta svo vel heima, sem bezt má verða, svo að ástæðu vantar til að rengja þetta og búa til nokkuð annað gegn orðum fornsagnanna, enda er þetta hálendasti og byggilegasti staðrinn við Örriðaárós, og að austanverðu við ána, þeim megin sem Hvammr stendr. Kemr þetta því alveg heim við rannsókn mína 1881 (sbr. Árb. 1882).

Naustið var með svo breiðum veggjum, að þeir vóru um 10

fet. Breidd naustsins að innan hefir sjálfsagt verið 12—13 fet. Eins og áðr er sagt, eru veggirnir mjög hlaðnir úr grjóti, og víða stórir steinar. Enginn maðr veit til að hér hafi verið haft naust, enda er það mjög ólíklegt, því að hér flýtr aldrei að, þar sem ósinn er fyrir löngu fyltr upp með grjóti. Nú er lending miklu neðar og hefir svo verið það menn til vita.

## Auðarsteinn.

(29. ágúst).

Við skoðuðum »Auðarstein», sem kallaðr er. Hann er yfir 150 faðma frá malarkambi, beint út; nokkuð laugt fyrir vestan árósinn og fyrir vestan miðjan fjarðarbotninn, nær hinu vestra fjarðarhorni. Steinninn snýr frá landnorðri til útsuðrs; hann er $2^1/_2$ al. á lengd, $1^1/_4$ al. á breidd, þar sem hann er breiðastr, og líkr á hæð, að því er mælt verðr. Steinninn er lágr í suðrendann, og sýnist þar vera klofið ofanum; hefir hann að líkindum verið hærri í þann endann (enda minnir kunnuga menn að svo væri); hallinn á því sem eftir er af yfirborði steinsins sýnir það líka. Steinninn er lítið sokkinn í jörð. Austrhlið hans er nokkurnveginn slétt, enn að öðru leyti er hann mjög ólögulegr. Um þennan stein vita menn ekkert annað enn munnmæli, enn eg vildi skoða hann samt til að geta bent á sannleikann. Það er svo ólíklegt, sem mest má vera, að Auðr (eða Unnr) sé grafin undir þessum steini, þar sem sagan segir, að hún sé grafin í flæðarmáli, enn flæðarmál er nú (eins og áðr er sagt) fullum 150 föðmum ofar. Hér við bætist og annað, sem mesta þýðingu hefir, að flæðarmál hefir heldr færzt út enn inn, eins og gefr að skilja þenna afarlanga tíma, þar sem áin hefir borið fram aur og grjót og myndað sífelt nýjar og nýjar eyrar, sem smátt og smátt gróa upp, svo að landið færist fram, enn sjór getr aldrei brotið, því hér inn í fjarðarbotni kemr aldrei sjógangr; þetta sýnir og árósinn, sem nú er uppfylltr, eins og áðr er sagt. Upp á þetta get eg sýnt nóg dæmi annarsstaðar frá, að landið færist út, og er að gróa upp, og það langar leiðir.

## Rauðablástrssmiðja Þorsteins Kuggasonar.

Árin 1883—1884 var Guðmundr óðalsbóndi Guðmundsson í Ljárskógum að slétta tún sitt milli 30 og 40 faðma í landsuðr

frá bænum. Kom hann þá ofan á einkennilega tóft, sem ekki sást móta fyrir ofanjarðar annað enn stórar þúfur. Tóftin, sem var hlaðin að innan með grjót-undirstöðu, enn ekki að utan, var 20 fet á lengd og 10 á breidd, mæld að innan. Í austnorðrenda hennar var hlaðinn þverveggr úr stóru grjóti, og var hann tvíhlaðinn og kringum 2½ fet á breidd, enn alt að 3 fetum á hæð. Gegnum miðjan milliveggin gekk steinlögð renna, og hún ekki flöt í botninn, heldr eins og kjölmynduð, þannig að steinarnir láu á ská upp og út, svo að rennan var víð að ofan, enn mjó að neðan. Steinarnir vóru vel lagðir og feldir hver við annan. Fyrir innan rennuna lá hellusteinn mikill, eggsléttr að ofan og því nær eins á alla vegu, við það 2 fet á hvern veg. Fyrir utan rennuna í aðalhúsinu var þró ofan í gólfið fast við rennuna; hún var full af kolum og kola-ösku. Austnorðrendi tóftarinnar var sem bogmyndaðr, sem grjóthleðslan að innan sýndi. Frá hleðslunni og að milliveggnum var um 3 fet um miðjuna. Þannig var þessi afhluti mjög lítill. Þetta lítr helzt út fyrir að hafa verið ofn til að bræða í rauða, og að rennan hafi verið til þess að hið brædda járn úr rauðanum rynni um hana ofan í þróna. Bæði hellusteinninn og grjótið í rennunni var brunnið eða eldleikið og eins kamparnir á millumveggnum. Tóftin var öll full af kola-ösku og gjalli. Eitt er það enn, sem sýnir að hér hefir farið fram stórkostlegr rauðablástr. Rétt við landsuðr-vegg tóftarinnar er allstór hóll um 40 fet á lengd og 32 fet á breidd og um 7 fet á hæð. Hóll þessi reyndist tóm aska og gjall, þegar grafið var í hann, og hefir öllu því verið mokað út úr tóftinni. Nú er kominn þykkr jarðvegr ofan á þetta alt, og öll merki sýna, að þetta mannvirki er fornt.

Við landnorðrhorn tóftarinnar við hliðvegginn var steinn mikill; hann var 3 fet á hæð og um 2 fet á breidd og 16 þuml. á þykt; önnur hlið steinsins var slétt. Líkur virðast til, að þetta sé gamall reksteinn, og væri það merkilegt, ef það væri hinn sami steinn, sem Grettir lúði járnið við, enn víst er það, að veigaminni hlutir hafa geymzt um lengri tíma.

Nú eru hin mestu líkindi til að þetta sé rauðablástrssmiðja Þorsteins Kuggasonar. Aðrar sagnir vita menn ekki um rauðablástr í Ljárskógum.

Eg lét grafa tvær grafir í bæjarhólinn 1891, og hina þriðju áðr. Þar er kolaaskan og gjallið á þykt um 2½ fet. Svo mikið er víst, að þessi merki hljóta að stafa af rauðablástri.

Á öðrum stöðum í landeign Ljárskóga hafa fundizt merki til

að brendr hafi verið rauði, enda er þar allvíða mikið af járnsteini.

## Straumfjörðr.

(*Straumfjarðarós*).

(5. sept).

Fram undan Straumfjarðará er Straumfjörðr, og myndast af tveim afarlöngum nesjum. Að vestan heitir Stakkhamarsnes, enn að austan Skógarnes hið ytra. Fjörðrinn mun vera alt að mílu á lengd, og er allbreiðr innan til, enn á milli nesjanna að framan má hann heita örmjór; hér kemr því aldrei sjávargangr. Ósinn að framan á milli nesjanna er ýmist kallaðr Straumfjarðarós eða Stakkhamarsós. Vestan til við árósinn gengr fram nes, sem myndast af vog, sem skerst úr árósnum í vestr. Vestan á nesinu móts við vogsbotninn, fram við sjóinn, þar sem heitir Búðarhamar, eru 2 stórar búðir (*1* og *2*), og eitt gaflhlað á milli; snúa í austr og vestr. Vestari búðin er 47 fet á lengd, enn 25 fet á breidd. Dyr sýnast hafa verið á austrgafli, sem að hamrinum veit. Eystri búðin er 49—50 fet á lengd, en 25—26 á breidd. Dyr eru óglöggvar, enn virðast helzt hafa verið við eystra gafl. Rétt við suðrhornið á þessari síðartöldu búð gengr hamarinn lengra fram; þar er stór búð (*3*) og öllu greinilegri enn hinar. Lengd 67 fet; breidd um 26 fet. Dyr glöggvar við eystra gafl. Þannig virðast dyrnar snúa eins á öllum þessum búðatóftum. Allar þessar búðir eru grasi grónar; hleðslusteinar sjást allvíða. Um 5 faðma í vestr frá búð þeirri, er fyrst var nefnd, er búð (*4*) er snýr í útsuðr og landnorðr, 47 fet á lengd og um 23 fet á breidd. Dyr óglöggvar, enn virðist vera á útnorðrvegg á nyrðra gafli. Í landnorðr frá þessari búð hefir verið búð (*5*), sem snýr austr og vestr. Lengd sýnist hafa verið 38 fet, enn breidd verðr ekki mæld, því búðin er mjög óglögg.

Á austrenda nessins, 57 faðma frá búðinni nr. 5, er búðartóft (*6*), ákaflega stór, snýr í landnorðr og útsuðr, 67 fet á lengd og 26 fet á breidd. Dyr virðast hafa verið við vestrgafl á suðrhliðveggnum. 6—7 faðma frá þessari búð er og búð (7). Hún er 65 fet á lengd og 24 fet á breidd. Dyr nokkuð óglöggvar, enn munu hafa verið á syðri hliðvegg, er að ósnum veit, nær austrgafli; í austrenda búðarinnar sýnist vera upphækkun, og

gæti þar hafa verið afhús, enn ekki skal eg fullyrða það. Búðin snýr í landnorðr og útsuðr.

Allar þessar búðatóftir eru næsta fornlegar að útliti. Fleiri búðatóftir gat eg ekki fundið í þessu nesi, eða hér við Straumfjarðarárós.

Nesinu hallar öllu norðr að voginum. Nær því við vogsbotninn fann eg mannvirki, við fjörumál, afarmikið ummáls. Þetta getr ekki verið annað enn fornt hafskipanaust; lengd 70 fet, enn breidd um 23 fet, enn um stærðina verðr að vísu ekki fullyrt, með því veggir munu gengnir mjög úr lagi.

Innaní hamrinum og rétt undan austustu búðinni og hinni síðast töldu búð er merkilegt gat, sem liggr gegnum klettsnös, sem gengr þar fram; gatið er kringlótt og virðist höggvið af mönnum. Það er 5 fet á lengd, og hallast svo, að það er 2 álnir frá fjörumáli öðrum megin, enn 1 alin hinum megin. Hér hafa auðsjáanlega verið hafðar skipsfestar. Gatið er svo vítt, að vel má stinga fæti í gegnum það.

Hin ytri búðaþyrping við víkina hygg eg að verið hafi verzlunarbúðir, enn hinar 2, sem eru á enda nessins, þingbúðir; þær eru nægilega stórar til þess, þar sem á þessu þingi var ekki meiri fólksfjöldi enn úr Rauðmelingagoðorði.

## Landdraugsholt.

(7. sept.)

Eg fór frá Brúarfossi og prestrinn séra Guðlaugr Guðmundsson og fleiri menn með mér til að rannsaka þann hluta Kristnisögu, sem þar gerðist niðr með Hítará. Mitt á milli Skiphyls og Lækjarbugs sunnan ána er móabarð á holtmel upp frá ánni og graseyri fyrir neðan; móabarð þetta er í munnmælum nefnt »Norðmannshaugr« og var álitið, að á eyri þessari hefði Þangbrandr barizt við Skeggbjörn, enn öll skilyrði vanta fyrir því, að svo hafi verið. Eg hafði reyndar með mér graftól, er prestrinn léði mér, með því þetta kynni ef til vildi að vera haugr þeirra manna, er féllu með Skeggbirni, því að þá var eg ekki kominn svo langt niðr með Hítará, að eg hefði fundið hinn rétta sögustað.

Eg sagði reyndar þegar eg sá móabarð þetta, að hér fyndist ekkert, enn með því eg vildi prófa munnmælin, til að taka hér af tvímælin, þá grófum vér frá hliðinni þverskurð allbreiðan hér inn í, alt yfir fyrir þar sem barð þetta var hæst og ofan í

möl; reyndist þetta þá svo, að þetta hefir aldrei fornmannahaugr verið. Vér fórum þá ofan að Skiphyl, er stendr að sunnanverðu við Hítará til að leita þar réttra sögustaða; bæði örnefnin *Steinsholt* og *Landdraugsholt* hafði eg nú hvorugt getað hér nokkurstaðar spurt upp áðr enn vér komum að Skiphyl, enn þá var eg svo heppinn, að bóndinn þar, Jón Jónsson, hafði heyrt einn gamlan mann nefna þetta Landdraugsholt fyrir norðan Hítará neðan til á móti Skiphyl. Eg skal áðr segja frá því, sem fyrst er talað um í sögunni, nefnil. um festarstein Þangbrands. Það er ákaflega stór steinn, nær mannhæðar hár og 3½ faðmr ummáls, og svo vel lagaðr sem festarsteinn getr verið, því að neðan er hann allr mjórri enn að ofan. Steinninn stendr á bergi einu allháu, er skagar út í ána sunnan árinnar, spottakorn fyrir utan Skiphyl; þar er hylr alveg eins og sagan lýsir honum, bæði lygn og djúpr, sem eg hygg að minsta kosti að lítið hafskip mundi fljóta á. Steinninn stendr svo framarlega á berginu, að frá honum fram á brúnina er tæpr faðmr; steinn þessi er næsta einkennilegr og merkilegr; því þegar maðr slær á steininn annaðhvort með litlum steini eða járni, þá er hann svo hljómfagr, að það syngr við, líkt og í klukku, og reyndi eg það á öðrum steinum þar og kom þar ekkert þess konar hljóð, enda er steinn þessi kallaðr: »Klukkusteinn«, einnig sýndist okkr steinn þessi alt annarar tegundar enn bæði bergið, sem hann stóð á, og allir steinar þar, því þar sem flísar höfðu fallið úr steininum, sem sýndist vera nýrra, þar var að sjá í sárið hingað og þangað sem ljósleitir krystallar. Það er og undarlegt, að sjá þennan stóra stein standa rétt fram á blábrún á berginu, og engan annan stein þar nálægt, hvorki smáan né stóran. Það er því eins og steinninn sé þangað færðr af manna höndum, sem þó með engu móti getr verið um slíkan heljarstein. Hvort steinn þessi sé þangað kominn frá öðrum fjarlægum stöðum á ísöldinni, skal eg láta jarðfræðingana dæma um.

Eg skal geta þess, að sjór fellr upp eftir Hítará alt upp fyrir Skiphyl um stórstraumsflæði, og er áin þaðan frá alt í sjó fram lygn og með sandbotni, enn óvíða flúðir eða steinar, eins og eru í henni fyrir ofan Skiphyl alt til fjalls. Þetta kemr því vel heim við frásögn sögunnar.

Beint á móti festarsteininum, norðanvert við ána, er holt hátt og allmikið og með klettum þeim megin, er að ánni veit. Þetta holt er óefað það Steinsholt, er sagan nefnir, því að neðst á holtinu, þar sem það þó enn er hátt, stendr steinn einn mikill

sem bjarg og er hann einstakr. Svo kemr graslægð hér um bil 40 faðma á breidd, þá byrjar ákaflega mikið og langt holt, sem liggr niðr með ánni, og er það með klettum þeim megin sem að ánni veit. Þetta er það Landdraugsholt, er sagan nefnir, og ber sama nafn enn í dag, eins og áðr er sagt.

Undan lægðinni milli holtanna er nú farvegr Hítarár orðinn meira eða minna á annað hundrað faðma breiðr, og eru hér eggsléttar eyrar með sandi og smágrjóti. Fitin sem sagan talar um, sem þeir Þangbrandr börðust á, hefir því hér verið að norðanverðu við ána, niðr undan hinu áðrnefnda Steinsholti, því að þar sem sagan miðar staðinn við Steinsholt, hafa þeir barizt nær því enn Landdraugsholti, enda þótt bilið milli holtanna sé ekki mikið. Þetta kemr því mæta vel heim við það, hvernig hér hagar til; einungis hefir áin smábrotið hér af grassvörðinn. Að þetta sé rétt sannast af því, að litlu neðar út á eyrunum er eftir há grastorfa, sem alt af er að brotna af, og hefir bóndinn á Skiphyl séð mikinn mun á henni í seinni tíð. Nú fellr áin að vísu að mestu leyti með suðrlandinu, eins og hún hefir gert fyrrum, og fyrir sunnan grastorfuna, enn þó fellr lítil kvísl af ánni fyrir norðan hana, enn þessi stóra og slétta áðrtalda eyri er þar á milli.

Nú segir Kristnisaga með berum orðum, að haugr Skeggbjarnar standi á fitinni ofan frá Steinsholti; þar hafi þeir barizt, eins og áðr er sagt. Það gefr því að skilja, að haugr Skeggbjarnar er löngu afbrotinn, og þarf því ekki að honum að leita, enn um hina átta segir sagan, að þeir sé jarðaðir í Landdraugsholti, það er að segja upp í holtinu sunnan til við efra enda þess fyrir neðan klettana, enn þessi kuml, er sjálfsagt hafa verið allmikil, þar sem hér var svo mikill mannfjöldi, hljóta og að vera öll afbrotin, enda hefir áin brotið hér af alt upp undir kletta, því að þar er nú snarbrattr melbakki margra faðma hár; það er að segja, menn þessir hafa verið færðir af fitinni upp undir efri endann á holtinu, enn haugr Skeggbjarnar látinn vera niðri á eyrinni.

Þangbrandr hefir haft aðsetr sitt á Skiphyl, þar sem skip hans lá. Þar er Krossholt á móti, norðanvert við ána, nokkuð ofar enn Skiphylr. *Lækjarbugr*, þar sem Þangbrandr rænti Kol, er meðal-bæjarleið ofar enn Skiphylr fyrir sunnan ána; nú fór Kolr ofan í Hítarnes, sem er alveg niðr við sjó að norðanverðu við ána. Þeir Skeggbjörn hafa því farið suðr nesið suðr að Hítará, og svo upp með ánni að norðanverðu, því annarsstaðar

verðr ekki farið sökum flóa. Þegar þeir Skeggbjörn hafa því komið upp undir Landdraugsholt, upp á svo kallaða »Brúnkollu-eyri«, hefir Þangbrandr fyrst séð til ferða þeirra frá skipi sínu, og með því Þangbrandr hefir og haft skutbryggju á land norðr yfir ána, hefir hann farið á móti þeim með sína menn, til að verja þeim ána og skipið, og verðr þá fundr þeirra eðlilegr á þeim stað, sem áðr er ákveðið; alt þetta er því svo rétt og hnitmiðað niðr í sögunni, að hvorki þarf né má í neinu frávíkja, enn það kemr fram af öllum þessum ljósu frásögnum í Kristnisögu um Þangbrand á ferðum hans hér á landi við kristniboðið, sem eg hefi tekið fram annarsstaðar, bæði í austr- og sunnlendingafjórðungi, sem örnefni þau sýna, sem enn eru til og kend eru við Þangbrand, að það verðr ófrávíkjanlegt að álykta svo, að Þangbrandr hefir hlotið að vera hér 3 vetr á Íslandi; því að öll þessi örefni, sem hér er um að ræða og eins í Borgarfirði, sem eg áðr hefi rannsakað, eru ljós vottr þess, að Þangbrandr hefir hlotið, að vera hér einn vetr vestra, og ekki má hafa söguna um Skeggbjörn að vettugi; hér við bætist og ferð Þangbrandar vestr í Breiðafjörð að Haga, og enn fremr bætist hér við vísan:

»Þórr brá þvinnils dýri«,

og þó í Íslendingabók segi, að Þangbrandr hafi verið hér einn vetr eða tvo, þá liggja hér svo ljós rök fyrir, að hann hefir hlotið að vera hér 3 vetr, sem enn má frekara sýna af öðru.

*Þangbrandshróf* hefir verið niðr með ánni að sunnanverðu, skamt fyrir neðan festarsteininn. Það er nú alt afbrotið.

## Grettisbæli í Fagraskógarfjalli.

(8. sept.).

Það er einkennilegr tindr, sem gengr suðr úr Fagraskógarfjalli og er skarð í milli. Tindr þessi er enn í dag kallaðr *Grettisbæli.* Hann er strýtumyndaðr og líkr til að sjá frá suðrhliðinni gotneskum turni.

Eg fór upp í Grettisbæli neðan frá Brúarfossi og prestrinn séra Guðlaugr með mér, sem hér er uppalinn og hefir verið hér alt til þessa dags. Við höfðum með okkr þriðja mann, sem er fjallgöngumaðr og kunnugr, og hefir oft komið meira eða minna upp í tindinn. Þetta var til að reyna að finna fylgsni Grettis, ef mögulegt væri, eða einhverjar líkur, enn tindr þessi er all-torsóttr og brattr. Við riðum upp í hlíðina og skildum þar eftir hestana. Neðan til við þjóðveginn undir tindinum, þar á sandinum,

er steinn, sem »Grettishaf« er kallaðr og sagan talar um; steinninn er á hæð yfir mannhæð og allmikill um sig. Við gengum á snið upp og suðr upp eftir tindinum, því fyrst vildum við þó kanna tindinn að vestan og sunnanverðu. Hér er lausagrjót og allbratt, enn því torsóttara varð sem ofar kom. Þegar kemr upp fyrir miðju í suðrhlíð tindsins, fara að koma snarbrattir svaðar og þegar lengra kemr upp ákaflega miklar klettsnasir með strítum, bríkum og tindum, og í einum stað er ákaflega mikið berghvolf, er myndar eins og hellisskúta, enn hér getr þó með engu móti hafa verið bæli Grettis; þar getr enginn maðr hafa verið. Þetta er nærri upp undir hæsta tindinum, enn bæði hann og aðrir tindar þar fyrir ofan standa lóðrétt sem standberg og fyrir neðan þá snarbrattir svaðar, sem enginn maðr kemst upp. Gegnum hæsta tindinn á »Grettisbæli« eru 2 göt, enn mjög svo lítil að sjá og eitt neðar gegnum móbergsbrík, sem vart er 2 álnir á þykt, enda gatið lítið og víst 3—4 mannhæðir upp að því neðan frá hinni bröttu skriðu, svo að það sér hver heilvita maðr, að í engu af þessum götum hefir Grettir getað verið eða nokkur annar maðr; þangað upp er engum fært, nema fuglinum fljúgandi, enda götin lítil, eins og áðr er sagt.

Þegar vér höfðum kannað alla suðrhlið Grettisbælis alt upp undir hátindinn, sáum við, að hér var ekki um nokkurn bústað að ræða, því þessi suðrhlið er að öllu leyti óaðgengileg, þegar upp eftir dregr, og Grettir getr þar hvergi hafa haft bústað eftir því sem sagan segir. Vér snerum því hér frá og vildum kanna vestrhlið fjallsins og ætluðum að ganga þvers yfir brattann fyrir neðan hátindinn og kanna þá hliðina, enn þar tóku við snarbrattir móbergssvaðar með illúðlegum hraungrýtisnibbum, sem enginn maðr getr fótað sig á. Við urðum því að halda á ská ofan og vestr neðar enn miðhlíðis, enn um þessa framhlið tindsins, er að veginum veit, er ekkert annað að ræða, enn að það er slétt móhella, og svo snarbrött, þegar upp undir hátindana dregr, sem standa lóðrétt niðr, sem áðr er sagt. Hér getr því ekki verið um neinn hellisskúta að gera, eða nokkurn mannabústað.

Nú vildi eg kanna norðrhlið tindsins, sem veit að Fagraskógarfjalli. Á milli Grettisbælis og Fagraskógafjalls heitir nú Egilsskarð; við gengum því þar þvert upp, að neðan eru fyrst grasgeirar langt upp eftir, enn síðan þegar upp í skarðið dregr, er grjót, enn miklu fastara undir fæti, svo þar er hægt upp að komast og ekki ýkjabratt; þegar við komum upp á hábrúnina

á skarðinu, og sáum austr af alt fram í dalinn (Hítardal), þá brá okkr mjög í brún, því þar komum við yfir á þverhnípta bergbrún og sáum niðr í ógurlega stóra berghvelfingu, sem þar var inn í fjallið eða tindinn; hún var bæði stór og víð, og svo djúp inn í tindinn, að þar sýndist okkr vera myrkr. Hér var því næsta geigvænlegt um að litast.

Síðan snerum við þaðan upp í norðrhlið tindsins, og er tindrinn þar mjög einkennilegr, því að þar standa upp margar klettabríkur, sem allar snúa eins. Ein hin stærsta klettabríkin er um 30 faðma löng, 6 mannhæðir á hæð og þó ekki nema 1½—2 álnir á þykt. Vér gengum upp með þessari klettabrík að austan. Þar sem hún endar að ofan er hún orðin svo lág, að þar getr maðr séð ofan af fjallinu yfir lóðrétt bergið og niðr um allar Mýrar. Enn hér á þessum stað við enda bríkarinnar, stendr jafnhliða henni mjög lítil klettabrík mannhæðar há, þar sem hún er hæst, og svo sem um 3 faðma á lengd. Milli hennar og hinnar stóru bríkar myndast eins og kví, sem mjókkar upp, og mun hún vera rúmr faðmr á breidd að neðan, enn nokkuð mjórri að ofan; innan í þesari kví og alt niðr frá henni er þykt lag af grænum mosa, sem er allmjúkr undir. Hvergi nokkurstaðar sáum við annarstaðar í Grettisbæli nokkurn mosa. Þetta er sá eini staðr af öllum þeim sem við komum á í tindinum, sem nokkur tiltök eru til, að nokkur maðr hefði getað hafzt við á, því að hér mátti bæði hlaða fyrir, enda tjalda yfir og hér er skjól af öllum áttum; hér er að vísu nokkur halli, enn við honum mátti gera með því, bæði að hlaða fyrir neðan og fylla upp með mosa. Mannaverk sáum við hér ekki að vísu, sem er heldr ekki von, þar sem liðið er á 9. hundrað ára síðan Grettir var hér, og hefir margt getað breytzt á svo afarlöngum tíma, enn undarlegt þótti okkr það, að niðr frá þessari kví, sáum við steindyngju nokkura bæði af löngum hellum og vel löguðum steinum, sem virtist eins og vera hlaupið þar niðr. Þessir steinar voru alt öðruvísi enn alt grjót þar í kring, bæði stærri og lögulegri.

Eg skal ekki fara fleirum orðum um þetta efni, eða neitt fullyrða að þessu sinni, hvort þetta hefir verið bústaðr Grettis eða ekki, enn hitt skal eg segja, að torvelt mun að finna í þessum fjallstindi nokkurn annan stað, sem líklegri væri til að nokkur lifandi maðr hefði þar getað viðhafzt.

Eg veit, að það er ekki samkvæmt orðum sögunnar, að Grettir hafi viðhafzt á þessum stað, eða að það er ekki beinlínis

eftir orðum sögunnar, þar sem segir: »Fór hann þá í Fagraskógarfjall og bjóst þar um; hann tjaldaði með gráu vaðmáli fyrir báðar borurnar á fjallinu og þótti sem þar sæi í gegnum neðan af vegi«; enn ef á þarf að halda, skal eg tilfæra ýmsa staði í sögunni, og það af þeim stöðum, sem eru mjög áríðandi, sem með engu móti geta staðizt, og hljóta því vissulega að vera mjög svo aflagaðir í þeim handritum, sem hinar prentuðu sögur eru gefnar út eftir, enn sumir af þeim eru þó alt öðruvísi og alveg réttir í öðru handriti, eða parti af handriti, sem eg veit ekki til að enn sé gefið út, og kemr þar fram hið rétta og sanna, einkum hvað sektarár Grettis áhrærir, sem hingað til hefir ekki orðið komið heim við tímatalið.

*Grettis-oddi* er fyrir ofan Brúarfoss, og gengr út í Hítará að sunnan, eins og sagan segir. Það er mjór oddi, sem myndast af Hítará öðrum megin, enn af læk, sem Tálmi heitir, öðrum megin; hann er með háum og snarbröttum melbökkum á báðar hliðar, enn framan af honum hefir brotið og blásið. Þetta mun því rétt í sögunni.

*Stillurnar*, sem sagan talar um, að Björn og Grettir hafi fært í ána, eru sýndar enn í dag; það er grjóturð mikil í ánni skamt fyrir ofan Brúarfoss. Ofan til á þessu svæði eru stærri og minni steinar í röð, sem liggja yfir ána, og má enn stökkva á milli margra þeirra, þegar áin er mjög lítil.

## Hítardalr.*

Um kvöldið, er eg hafði kannað »Grettisbæli«, fór eg upp í Hítardal til að skoða þar tvær höggnar mannamyndir á steinum í grunnvegg kirkjunnar. Annar steinninn var þá eyðilagðr. Myndirnar vóru lágmyndir; önnur með síðu skeggi, enn hin skegglaus. Það er myndin með skegginu, sem enn þá er til. Þótti mér hún fornleg, og lofaði prestr og bóndi að láta kljúfa steininn sundr og senda mér myndina á forngripasafnið.

Skálatóftin forna, sem er fyrir ofan bæinn í Hítardal, er sagt að sé af hinum sama skála, sem Magnús biskup brann inni í, og hafi hann verið bygðr aftr. Tóftin er 18 faðma löng að utanmáli; er sagt í munnmælum, að tólf rúm hafi verið með hvorri hlið. Tveir legsteinar gamlir eru í garðinum; annar stór, með myndum af guðspjallamönnum í hornunum; lofaði prestr mér, að senda mér skýrslu um letrið á þeim.

# Nokkur bæjanöfn í Landnámu

**í ofanverðri Hvítársíðu og Hálsasveit.**

Eftir

**Brynjólf Jónsson.**

## 1. *Sturlustaðir.*

Svo segir í Landn., II. p., 1. kap.: »Maðr hét Kalman, suðreyskr að ætt . . . nam hann land fyrir vestan Hvítá milli Fljóta, ok Kalmanstungu alla ok svo alt austr til jökla, sem grös eru vaxin, ok bjó í Kalmanstungu. Hans son var Sturla goði, er bjó á Sturlustöðum uppi undir Tungufelli upp frá Skáldskelmisdal; enn síðan bjó hann í Kalmanstungu«. Öll þessi örnefni *Sturlustaðir*, *Tungufell* og *Skáldskelmisdalr* eru nú týnd. Eg hefi leitað að rústum Sturlustaða, og Ólafr búfræðingr í Kalmanstungu með mér, og einna helzt komizt að þeirri niðrstöðu: *að Tungufell* muni hafa heitið fjallás sá, er nú kallast *Kleppar* uppi á heiðarbrúninni langt fyrir innan Fljótstungu, *að* hraunsundið þaðan austr að Strútnum, sem vel má kalla dal, hafi heitið *Skáldskelmisdalr*, og *Sturlustaðir* hafi verið þar, sem nú heita *Halldórstóftir*, eyðihjáleiga frá Kalmanstungu, er var í bygð á fyrri hluta átjándu aldar. Þetta styðst við ýmsar líkur: Rústir Halldórstófta eru »uppi undir« Kleppum »fyrir ofan« hraunsundið, því þær standa hátt, í dálitlum hvammi uppi í heiðarbrúninni, og hamar fyrir neðan, ofan að Norðlingafljóti. Er aðalrústin norðanmegin við dálítinn læk, er þar fellr ofan; er þar græn tóft, eigi allfornleg og eigi allstór; enn hún sýnist bygð ofan á aðra stærri og fornlegri; fleiri rústum sér þar fyrir; enn allar eru þær óglöggvar og ekki hægt að lýsa þeim. Fyrir vestan lækinn er stór tóft uppi við heiðarbrekkuna; hún er eigi græn, og að nokkuru vaxin hrísi; virðist hún miklu eldri enn hinar; að lögun er hún svipuð hoftóftum, sem víða eru sýndar, allar tvískiftar og ann-

ar hlutinn miklu stærri; enn eigi er hún svo glögg, að hægt sé að mæla hana. Þar eð nú Sturla hafði »goða« nafn, hefir hann án efa reist hof á bæ sínum, og getr þetta verið tóft þess. Í annan stað liggr beint við, að Sturla gerði bæ þar í landnámi föður síns, sem torveldara var að nota heiman frá Kalmanstungu, enn opið fyrir nágrönnunum að vestan. Hefir þá landið »milli Fljóta« fylgt Sturlustöðum. Eftir lát föður síns hefir Sturla þó heldr viljað búa í Kalmanstungu, því eigi er þar jafnmikið vetrarríki. Munu Sturlustaðir þá hafa lagzt í eyði, enn Fljótstunga svo verið bygð aftr í því landi, orðið með tímanum sjálfstætt býli, enn fengið þó eigi alt land vestan Norðlingafljóts. Má vera, að hjáleiga hafi verið ger á Sturlustöðum fornu, til þess að halda landinu norðr þar undir Kalmanstungu; og enn á Kalmanstunga þar landið. Nafnið Sturlustaðir hefir líklega verið gleymt áðr; enn nafnið Halldórstóftir mun komið af því, að sá er bygði hafi heitið *Halldór* og bygt á gömlum *tóftum*.

2. *Brenna.*

Svo segir í Landn. (s.st.): »Kýlan hét bróðir Kalmans; hann bjó fyrir neðan Kollshamar; hans son var Kári . . . brendi Þjóðólfr Kára inni, þar sem nú heitir á Brennu«. *Brenna* heitir enn eyðihjáleiga frá Kalmanstungu, sunnan undir felli því, er myndar Kalmans-tunguna. Þar upp yfir á kolli fellsins sunnanmegin er hamraborg, sem nú heitir Nónborg, er það án efa sama sem Kollshamar. Þar er fögr skógarhlíð sunnan í öllu fellinu, og hefir Brenna staðið þar í gilhvammi nokkurum á grænni flöt, sem auðsjáanlega er uppgróin skriða, er hækkar smámsaman af árensli. Þar sér fyrir rúst, enn næstum er hún horfin; nokkuð glöggvar sér þar á einum stað fyrir túngarði. Hvítá rennr fyrir neðan.

3. *Tungan litla.*

Svo segir enn (s.st.): »Hans (Sturlu) son var Bjarni, er deildi við Hrólf hinn yngra og sonu hans um Tunguna litlu; þá hét Bjarni at taka kristni; eftir þat braut Hvítá út farveg þann, er nú fellr hún . . . Bjarni tók skírn ok bjó at Bjarnastöðum í Tungunni litlu, ok lét þar gera kirkju«. »Tungan litla« hefir verið neðsti oddi Geitlandsins, milli Hvítár og Geitár, áðr þær koma saman. Hefir Hvítá skilið hana frá Kalmans-tungunni, sem uppgróinn farvegr sýnir. Enn síðar hefir hún brotizt þvert yfir í Geitá nokkuru ofar, og þar rennr hún enn, svo Tungan litla er nú áföst

við Kalmans-tunguna. Tungan litla er hraunland, mest alt skógi vaxið, enn þó blásið austantil. Þar sjást grjótrústir eigi alllitlar; þó sést eigi tóftaskipun með vissu, enda hefir sauðahús verið bygt á seinni tímum ofan á þá, sem líklegust er til að hafa verið bæjarrústin. Mannabein höfðu blásið þar upp; man gamalt fólk eftir leifum af þeim; enn nú eru þær horfnar. — Ólafr búfr. í Kalmanstungu sýndi mér þessa staði í júlí 1891.

*4. Geitland.*

Svo segir Landnáma (I. p., 21. k.): »Úlfr son Gríms hins háleyska nam land milli Hvítár og suðrjökla ok bjó í Geitlandi». Nú á tímum er engin bygð í Geitlandi; enn bæjarústir sjást þar fyrir víst á tveim stöðum. Eigi er hægt að lýsa þeim, því bæði eru þær óglöggvar, og svo er fjalldrapi vaxinn yfir þær. Vestri rústin er skamt fyrir austan Geitá, — sem rennr sunnanmegin Geitlandsins. Sá bær er nefndr *Hamarendar*; er þar hamragarðr við bæjarlækinn. Rústirnar eru undir brattri brekku, allfagri; sjást fremr óglögg deili á þeim, nema einni tóft, sem er sérstök og mjög auðkend. Hún hefir dyr á norðvestrenda, enn afhús við suðaustrendann. Það gæti verið hoftóft; enn þá ætti hún að vera elzta tóftin, og er merkilegt, að hún skuli þá vera glöggust. Það gæti líka verið stekkjartóft; hefði t. a. m. þessi bærinn lagzt í eyði fyr enn hinn, er eigi ólíklegt, að hér hefði síðan verið hafðr stekkr frá þeim bænum er eftir var. Lögun tóftarinnar bendir líka fremr til þess; enn stór má sá stekkr þó hafa verið. Eystri rústin er þar skamt frá. Þar heitir nú «Kot«. Þar eru þó stærri og glöggvari tóftir, og mun á sínum tíma hafa verið stórbýli. Þar mótar fyrir kirkjugarði og kirkju. Mun þetta hafa verið höfuðbólið *Geitland*, enn fengið nafnið »Kot« af því, að síðast mun bygð þar hafa verið orðin fátækleg. Þykir líklegast, að bygðin í Geitlandi hafi lagzt niðr fyrir þá skuld, að Geitá hefir smátt og smátt eyðilagt engjarnar, sem munu hafa verið á sléttunum fyrir neðan bæina; enn þar er nú alt þakið möl eftir ána. Enn líka kenna munnmæli því um, að horfið hafi vatnsbólið í «Koti«. Á það að hafa verið hver, sem hafi flutt sig og komið upp þar, sem nú er hverinn Skrifla hjá Reykholti. Sjá má, hvar vatnsbólið hefir verið í «Koti«. Það er lítil lind uppi í túnbrekku, og hefir verið hlaðin innan. Lítið er vatn í henni, enn virðist hafa verið meira áðr. Eigi er hún sárköld, og steinar eru í henni með hvítri skán. Þó er eigi útlit fyrir, að þar hafi verið hver.

Eigi vita menn af fleiri bæjarústum í Geitlandi; enn eigi er fortakandi, að fleiri fyndist, ef leitað væri með nákvæmri éftirtekt.

5. *Reyðarfell.*

Svo segir í Landn. (I. p., 19. k.): »Svarthöfði son hans (Bjarnar gullbera) bjó að Reyðarfelli». Og í Grettissögu (k. 17.) segir: »Hafliði hét maðr; hann bjó at Reyðarfelli í Hvítársíðu«. Nú vita menn, að Reyðarfell var fyrir sunnan Hvítá, undir sömu fjallshlíð og Húsafell, nokkuru vestar. Er svo að sjá, sem sú hlíð hafi verið talin með Hvítársíðu, þá er Grettissaga var rituð. Hlíðin fer lækkandi út eftir frá Húsafellsfjalli og verðr hjallamynduð. Þar eru «líparít»-skriður í brúnum hennar, og upp á hjallanum, austan til miðjum, spölkorn fyrir ofan brúnina, stendr sérstakr »líparít«-hnjúkr, sem heitir *Reyðarfell,* án efa af hinum rauða lit «líparít«sins. Beint undan hnjúknum eru rústir bæjarins Reyðarfells neðantil í hlíðinni. Þær eru margar og stórar; virðist þar hafa verið stórbýli, ef ekki fleirbýli. Þar er graslendi, og eru rústirnar grænar; að því er séð verðr eru þær eigi fornlegar; mun bygð hafa haldizt þar nokkuð lengi, enn eyðzt af skriðum, er fallið hafa á túnið. Nokkurn veginn glöggt sér þar fyrir kirkjutóft og kirkjugarði. Fyrir neðan er slétt grund, sem liggr undir allri hlíðinni inn til Húsafells. Enn fram með grundinni rennr á sú, er Kaldá heitir; það er bergvatnskvísl, sem sprettr uppundan Húsafellshrauni, þar skamt fyrir innan bæinn, og rennr beint út í Hvítá. Þar sem þær koma saman, heita Ámót. Þar er fornleg bæjarrúst á grundinni. Eigi vita menn, hvort bær sá hefir heitið Ámót eða eitthvað annað. Ef til vill er þetta rúst Hranastaða, sem Landn. nefnir, enn óvíst er hvar verið hafa. Önnur bæjarrúst er í Kaldárbotnum; hún hefir forna lögun, enn er þó græn og grænt kringum hana; mun því bygð hafa haldizt þar nokkuð lengi fram eftir öldum, enn eyðzt af því, að skriða úr svo nefndu Selgili hefir umrótað meztöllu túninu. Munnmæli segja, að þetta sè *Karlastaðir,* og kemr það heim við orð Landn.: að þræll Kára »hljóp suðr um hraun« (frá Brennu) er hann drap Karla. Frá Húsafelli liggr enn löng hlíð til austrs. Þar sem hún endar, nærri mótum Lambár og Geitár við Kaldadalsveg, hefir enn verið bær, og heitið Hlíðarendi. Þar eru tvær rústir og skamt á milli. Eystri rústin hefir fornlega lögun: hver tóftin af enda annarar og millidyr á milli, enn útidyr á hliðveggnum. Vestri rústin er nýlegri: tóftirnar hver við hliðina á annari. Þó er skipun þeirra óglögg, meðfram af því, að á fjár-

kláðatímanum var þar bygðr varðmannakofi. Þegar séra Snorri Björnsson var prestr að Húsafelli, dó þar hjá honum gömul sveitarkerling, er hafði fæðzt á Hlíðarenda. Svo lengi hélzt bygðin þar.

Beint upp undan Reyðarfells-rústunum, uppi á hjallabrúninni, er steinn, sem kallaðr er *Grettistak*. Hann stendr á 3 steinum, sem allir eru ílangir, og standa allir upp á endann. Svo eru þeir háir, að vel kemst hundr undir steininn milli þeirra. Grettir á að hafa sett hann upp á þá. Það virðist samt í fljótu bragði mjög ólíklegt, því steinninn er miklu stærri enn svo, að menn hafi getað hafið hann. Enn þess er að gæta, að stuðlarnir eru settir *utan í* malarbrún og hefir steinninn að líkindum staðið upp á henni áðr; mátti þá með lagi hrinda honum fram á stuðlana, eða jafnvel grafa svo undan honum, að hann félli á þá fyrirhafnarlítið; vindrinn gat svo á löngum tíma sorfið brúnina jafna aftr. Á hinn bóginn er mjög ólíklegt, að steininn sé af tilviljun kominn eða þeir undir hann, þannig sem þeir standa. Munnmælin geta því verið sönn: Kunnugt er: að Grettir hafði gaman af að fást við stóra steina til að sýna afl sitt, og hann var frændi Hafliða að Reyðarfelli og fór »utan» með honum. Í þeirri ferð *gat* hann dvalið þar dag eða lengr og þá gert þetta.

### 6. *Grímsgil.*

Svo segir í Landn. (I. p., 21. k.): »Grímr hét maðr, er nam land et syðra upp frá Giljum til Grímsgils ok bjó við Grímsgil. Hans synir vóru þeir Þorgils auga á Augastöðum ok Hrani á Hranastöðum«. Hér segir: að Grímr nam land »et syðra«; svo hlaut að vera, þar eð Þorkell kornamúli, er bjó í Ási, hefir numið alt *hið nyrðra* eða nær Hvítá á því svæði. Landnám Gríms hefir því verið hlíðin norðan í fjallinu frá Giljum austr að Reyðarfelli. Þar kemr gil ofan, sem fellr fyrst til norðrs fyrir austan Reyðarfell, svo vestr með fellinu að noraðn, beygist síðan í suðvestr og rennr í þá átt eftir hjalla þeim, sem Reyðarfell stendr upp á, þá vestr fyrir hjallann að sunnan og beygist hringinn í kringum vestrenda hans til norðrs og síðan til norðaustrs niðr grundina fyrir utan Ámót, og þar út í Hvítá. Gil þetta myndar þannig næstum eins og latínustafinn S, og er neðri bugrinn, sem hjallaendinn liggr í, nú á dögum kallaðr «Hringrinn«, og er gilið vanalegast kent við hann og kallað »Hringsgil«. Öðru nafni er það þó stundum nefnd *Grímsgil*, og mun það rétt, því varla getr verið um annað gil að ræða enn þetta, eða þá Deildargil, sem

eftir afstöðu sé líklegt til að vera Grímsgil. Og nú hafði Deildargil fengið nafn sitt þá, er Landn. var ritað, og er því ekki sama sem Grímsgil, er Landn. nefnir. Langt upp með gilinu (Grímsgili=»Hringsgili«), næstum upp undir Reyðarfelli, er bæjarrúst mjög fornleg, enn þó allglögg; því þar er þunnr jarðvegr og grjótmelr undir, svo hún hefir eigi getað sokkið mjög niðr. Það er ein skálatóft, tvískift með miðgafli, og eru dyr á honum, enn útidyr á suðrhliðvegg. Öll rústin er hér um bil 14 faðma löng. Fyrir túngarði sést á báða vegu út frá endum hennar. Þessi bær hefir staðið hærra enn aðrir bæir þar nálægt. Þó má þar hafa verið vel byggilegt til forna, þvi enn þykir þar hagasælt; er þó nú mjög blásið þar víða og enginn skógr, sem án efa hefir verið í fornöld. Athugavert er, að rústin er norðanmegin við gilið, og því fyrir utan takmörk þessa landnáms, sem Landn. tileinkar Grími. Enn það mun eigi vera nákvæmt; landslag bendir til þess, að sá, er hér bjó, hafi helgað sér alt svæðið uppi á hjallanum, báðum megin við gilið. Enn þess nær lá, að þessi bær hlyti að leggjast í eyði þá er bær var ger að Reyðarfelli, þar rétt niðr undan í hlíðinni. Og þar eð fellið Reyðarfell stendr í landnámi Gríms fyrir sunnan gilið, þá hefði bærinn Reyðarfell varla getað haft nafn af því, nema því að eins að bærinn Grímsgil legðist í eyði, og sá hluti landsins, sem hann stóð í, ásamt fellinu, legðist undir Reyðarfell. Landn. sýnir líka, að synir Gríms bjuggu við Grímsgil eftir föður sinn.

Kristleifr bóndi Þorsteinsson[1] á Uppsölum sýndi mér þessa staði, sem taldir eru undir tölul. 4. 5. og 6. í júlímán. 1889.

### 7. *Hofið o. fl. á Hofsstöðum.*

Í Landn. (I. p., 21. k.) er getið hofs á Hofsstöðum, og að Sigríðr Þórarinsdóttir hengdi sig í hofinu. Þorsteinn bóndi Arnason á Hofsstöðum, vitr maðr og vel að sér, sýndi mér hofrústina sumarið 1889. Hún er austan til í túninu undir brekku mót suðri; lítr hún út sem þúfnabarð, enn með því að stinga niðr járnteini, má finna grjótlögin þar sem veggirnir hafa verið. Fyrir dyrum sér líka, og snúa mót suðri. Fram undan dyrunum, litlu neðar í brekkunni, er stór steinn kallaðr »Hofklettr«. Í honum eru 2 einkennilegar holur, sem virðast mannaverk. Önnur er þríhyrnd, niðrmjókkandi og eigi yfir 3 þuml. á dýpt, enn að ofan er hún

---

1) Kristleifr er son Þorsteins Jakobssonar, Snorrasonar prests á Húsafelli, Björnssonar. Hann er greindr maðr og fróðr.

nál. 5 þuml. á einn veginn, enn nærfelt $3^{1}/_{4}$ þuml. á hina tvo. Hin holan er kringlótt, nál. 1 þuml. í þvermál, enn um 30 þml. á dýpt, og liggr nokkuð skáhalt niðr. Til hvers þær hafa átt að vera, er vant að segja.

Í Árb. 1884—85, í neðanmálsgrein á bls. 123—124, getr Sigurðr Vigfússon um *Sigguhól*, þar sem munnmæli segja, að Sigríðr Þórarinsdóttir sé dysjuð. Getr S. V. þess, að hann grófi í hólinn, og að það reyndist gamall öskuhaugr. Þorsteinn segist hafa verið að greftinum með S. V. Segir hann það satt vera, að hóllinn reyndist öskuhaugr; enn í þeim haug, nokkuð neðarlega, hafi þeir þó fundið örþunt moldarlag, svart, svo langt og breitt sem svara mundi meðalstórum kvenmannslíkama, og þar í beinaleifar á tveim stöðum, sem þó molnuðu, er við var komið. Um þetta segir Þorsteinn, að Sigurðr hafi sagt á þá leið, að vel gæti það verið leifar af líki; enn óhugsandi og ósamboðið fornmönnum, að slík höfðingskona, sem Sigríðr var, hafi verið dysjuð í öskuhaugi, og því mundi hann eigi geta um þetta á prenti. Það hefir hann heldr ekki gert. Þorsteinn sagðist þó ekki geta verið S. V. samdóma um, að það hefði verið fornmönnum ósamboðið, að dysja Sigríði í öskuhaugi, því auk þess sem sjá mætti, að hún hefði eigi verið elskuð né virt af Illuga, er vildi selja hana, og því síðr af Starra, er hún sjálf var fráhverf, og þeir því naumast skoðað hana sem höfðingskonu, þá væri þetta ekki vottr um annað, enn að fornmenn hafi fyrirlitið sjálfsmorðingja. Þætti sér því engin ástæða til að dylja hið sanna um gröftinn, hvað sem menn kynni að segja um munnmælin.

---

# Rimmugýgr.

Þessari Árb. fylgir mynd af öxi, sem fyrrum var í Skálholti og kölluð Rimmugýgr. Frummyndin fanst í teikningasafni, sem erfingjar Sigurðar málara Guðmundssonar gáfu Forngripasafninu eftir hann. Þessi teikning er gerð í fullri stærð af Steingrími byskupi, og er ritað á uppdráttinn (öxarblaðið): «Öxen Rémigia i naturlig Störrelse bortgiven til Justitsraad Thorkelin den 31. Dec. 1804». Öxin hefir verið 18 þuml. fyrir egg. Eggert Ólafsson («Reise i gjennem Island«, bls. 1034) getr um þessa öxi og segir, að hún hafi verið ryðbrunnin mjög; skaftið hafi verið af rauðgreni, 3½ al. á lengd og járnvarið.

Jafnvel þótt engin vissa sé fyrir því, að þessi öxi sé frá fornöld, hefir þótt rétt að láta prenta mynd af henni.

Myndin átti að fylgja Árb. 1887 og er myndarblaðið ranglega merkt tölunni IV.

Nú vita menn ekki, hvað orðið hefir síðan af öxi þessari, enn líklegt er að hún hafi brunnið með safni Thorkelíns 1807.

## Leiðrétting og viðauki við æviágrip Sigurðar Vigfússonar í Árb. 1888—92.

Þar segir, að Sigurðr sé fæddr í Fagradal (innra) í Dalasýslu. Þetta er ekki rétt, því að á lausum miða hefir Sigurðr sjálfr skrifað að hann sé fæddr í Stóraholti, og að hann hafi farið þaðan með foreldrum sínum þrévetr. Eftir það var hann hjá foreldrum sínum í Ytra-Fagradal 1831—39 og 1839—43 í Hvarfsdal. 1843 hefir hann farið til Reykjavíkr að nema gullsmíði og dvalið þar til 1846. Þá dvaldi hann eitt ár á Kjarlaksstöðum og annað í Galtardal, þriðja í Ásgarði vestra. 1850 fór hann til Kaupmannahafnar og dvaldi þar til 1855. Vetrinn 1855—56 var hann í Vigr, og 1856—57 var hann enn í Kaupmannahöfn.

# Skýrsla.

## I. Aðalfundr félagsins.

Á ársdegi félagsins, 2. ág. 1893, var aðalfundr þess haldinn af varaformanni félagsins; skýrði hann frá, að Dr. Björn Ólsen, sem kosinn var í fjarveru sinni formaðr félagsins á ársfundi 1892, hefði með bréfi 24. okt. s. á. skorazt undan að taka á móti kosningu þessari; kvaðst varaformaðr því, eftir samkomulagi við fulltrúana, hafa gegnt formannsstörfum þetta árið. Fram var lagðr endrskoðaðr reikningr félagsins fyrir 1892, minst á tölu félagsmanna og prentun Árbókar félagsins; getið var og um hvað félagið hefði í hyggju framvegis, og að félagsstjórnin hefði samið við Brynjólf Jónsson á Minnanúpi um, að rannsaka sögustaði og spyrja upp forngripi, enn efnahagr félagsins leyfði eigi að verja nema mjög litlu fé í þessu skyni. Því næst vóru kosnir embættismenn félagsins, svo sem frá er skýrt hér á eftir, og þrír fulltrúar: Dr. Björn Ólsen, Pálmi Pálsson og Steingrímr Thorsteinsson.

## II. Stjórn félagsins:

| | |
|---|---|
| *Formaðr:* | Eiríkr Briem, prestaskólakennari. |
| *Varaformaðr:* | Pálmi Pálsson, skólakennari. |
| *Fulltrúar:* | Dr. Björn Ólsen, skólakennari. |
| | Indriði Einarsson, revísor. |
| | Pálmi Pálsson, skólakennari. |
| | Steingrímr Thorsteinsson, skólakennari. |
| | Valdimar Ásmundarson, ritstjóri. |
| | Þorleifr Jónsson, alþingismaðr. |
| *Skrifari:* | Indriði Einarsson, revísor. |
| *Varaskrifari:* | Hallgrímr Melsteð, bókavörðr. |
| *Féhirðir:* | Þórhallr Bjarnarson, prestaskólakennari. |

*Varaféhirðir:* Sigurðr Kristjánsson, bóksali.
*Endrskoðendr:* { Jón Jensson, yfirdómari.
Valdimar Ásmundarson, ritstjóri.

## III. Reikningr félagsins 1892.

Tekjur:

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Í sjóði frá f. á. . . . . . . . . . . . . . | kr. 619.98 |
| 2. | Tillög og andvirði seldra bóka (fylgiskj. 1) . . | — 131.54 |
| 3. | Styrkur úr landssjóði 1892 . . . . . . . . . | — 300.00 |
| 4. | Vextir úr sparisjóði til 31./12. '92 . . . . . . | — 8.44 |
| | | Kr. 1059.96 |

Gjöld:

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Prentun og hefting Árbókar 1888—92 (fylgiskj. 2) | kr. 612.20 |
| 2. | Annar kostnaðr við Árbókina (undirbúningr hennar undir prentun, mynd og prófarkalestr (fylgiskj. 3) | — 206.50 |
| 3. | Ýmisleg gjöld (útsending Árbókar, o.fl., fylgiskj. 4-8) | — 69.04 |
| 4. | Í sjóði 31. desbr. 1892 . . . . . . . . . . . | — 172.22 |
| | | Kr. 1059.96 |

Reykjavík, 31. desbr. 1892.

**Jón Jensson.**

Við reikning þennan hefi eg ekkert að athuga.

*Eiríkr Briem.*

Reikning þennan hefi eg rannsakað, og er ekkert við hann að athuga.

*Vald. Ásmundarson.*

# IV. Félagar.

## A. Ævilangt[1].

Anderson, R. B., prófessor, Ameríku.
Andrés Fjeldsteð, bóndi, Hvítárvöllum.
Árni B. Thorsteinsson, r., landfógeti, Rvík.
Ásmundr Sveinsson, skrifari, Rvík.
Bogi Melsteð, kand. mag., Khöfn.
Carpenter, W. H., málfræðingr, frá Utica, N. Y.
Dahlerup, Verner, cand. mag., Khöfn.
Eggert Laxdal, verzlunarstjóri, Akreyri.
Eiríkr Magnússon, M.A., r., bókavörðr, Cambridge.
*Elmer, Reynolds, dr., Washington.
Fiske, Willard, próf., Florence, Italíu.
Goudie, Gilbert, F. S. A. Scot., Edinburgh.
Guðbrandr Sturlaugsson, bóndi, Hvítadal.
*Hazelius, A. R., dr. fil., r. n., Stokkhólmi.
Jóhannes Böðvarsson, snikkari, Hvítárvöllum.
Jón Á. Johnsen, sýslum., Eskifirði.
Jón Jónsson, próf., Stafafelli, Lóni.
Jón Þorkelsson, dr. fil., r., rektor, Rvík.
Löve, F. A., kaupmaðr, Khöfn.
Magnús Andrésson, próf., Gilsbakka.
Magnús Stephensen, komm. af dbr. og dbrm., landshöfðingi, Rvík.
Maurer, Konráð, dr. jur., próf., München.
Müller, Sophus, museums-assistent, Khöfn.
*Nicolaisen, N., antikvar, Kristíaníu.
Ólafr Johnsen, adjunkt, Óðinsey.
Peacock, Bligh, esq., Sunderland.
Phené, dr., Lundúnum.
Schjödtz, cand. pharm., Óðinsey.
Stampe, Astrid, barónessa, Khöfn.
Stefán Guðmundsson, verzlunarstjóri, Djúpavogi.
Stephens, G., próf., Khöfn.
*Storch, V., laboratoriums-forstjóri, Khöfn.
Styffe, B. G. (r. n.), dr. fil., Stokkhólmi.
Thomsen, H. Th. A., kaupm., Rvík.
Torfbildr Þ. Holm, frú, Rvík.
Wimmer, L. F. A., dr. fil., próf., Khöfn.
Þorvaldr Jónsson, héraðsl., Ísafirði.

## B. Með árstillagi.

Alin, V., prófess., Uppsölum.
Amira, Karl v., dr., próf., Freiburg, Baden.
Ari Jónsson, bóndi, Þverá, Eyjaf.
Arinbjörn Ólafsson, b., Njarðvík.
Arnbjörn Ólafsson, kaupm., Keflavík.
Arndís Jónsdóttir, frú, Laugardælum.
Árni Gíslason, b., Kirkjubóli, Selárdal.
Arnljótr Ólafsson, prestr, Sauðanesi.
Arpi, Rolf, dr. fil., Uppsölum.
Ásgeir Blöndal, héraðsl., Húsavík.
Baldt, F., húsasmiðr, Khöfn.
Benedikt Kristjánsson, fyrrum prófastr, Landakoti.
Bjarni G. Jónss., söðlasm., Haukadal.
Bjarni Jensson, læknir, Hörgsdal.
Bjarni Þórarinsson, próf., Prestsbakka.
Björn Guðmundsson, múrari, Rvík.
Björn Jónsson, ritstjóri, Rvík.
Björn M. Ólsen, dr., skólák., Rvík.
Boëtius, S. J., lector, Uppsölum.
Brynjólfr Jónsson, fræðimaðr, Minnanúpi.
Dahlerup, Verner, cand. mag., Khöfn.
Daníel Thorlacius, f. kaupm., Stykkishólmi.
Davíð Scheving Þorsteinsson, héraðslæknir, Brjánslæk.
Durgin, W. G., rev., Hillsdale College, Michigan.
Einar Ásmundsson, alþm., Nesi.
Einar Hjörleifsson, ritstj., Winnipeg.
Einar Jónsson, kaupmaðr, Eyrarbakka.

1) Stjarnan (*) merkir heiðrsfélaga.

Einar Thorlacius, sýslumaðr, Seyðisfirði.
Eiríkr Briem, prestask.kennari, Rvík.
Eiríkr Gíslason, prestr, Staðarstað.
Eiríkr Jónsson, varapróf., Garði, Khöfn.
Elínborg Thorberg, frú, Khöfn.
Eyþór Felixson, kaupm., Rvík.
Forngripasafnið í Rvík.
Friðbjörn Steinsson, bóksali, Akreyri.
Friðrik Steffánsson, alþingism., Skálá.
Geir Zoëga, dbrm., kaupmaðr, Rvík.
Gering, Hugo, prófessor, dr., Halle a. S.
Gísli Einarsson, prestr, Hvammi, Norðrárdal.
Greipr Sigurðarson, bóndi, Haukadal.
Grímr Jónsson, kennari, Ísafirði.
Grímr Thomsen, dr. fil., r. o. s. frv., Bessastöðum.
Guðmundr A. Eiríksson, hreppstj., Þorfinnsstöðum, Önundarfirði.
Guðmundr Gíslason, Port Arthur, Ont., Can.
Guðmundr Guðmundss., b., Ljárskógum.
Guðmundr Guðmundsson, héraðslæknir, Laugardælum.
Guðmundr H. Finnbjarnarson, Stað, Aðalvík.
Guðmundr Pálsson, beykir, Ísafirði.
Guðmundr Scheving, læknir, Seyðisfirði.
Guðmundr Thorgrimsen, f. kaupm., Rvík.
Guðmundr Þorláksson, stip.arnamagn., Khöfn.
Guðni Einarsson, Óspaksstöðum, Hrútafirði.
Guðni Guðmundsson, læknir, Borgundarhólmi.
Guðrún Jónsdóttir (borgfirðings), jungfrú, Khöfn.
Gunnar Halldórsson, f. alþingismaðr, Skálavík.
Gunnlaugr Briem, verzlunarstjóri, Hafnarfirði.
Guttormr Jónsson, snikkari, Hjarðarholti.
Gustafsson, G. A., ammanuensis, Uppsölum.
Hagson, K. A., läroverksadjunkt, Linköping.
Halldór Briem, kennari, Möðruvöllum.
Halldór Daníelsson, bæjarfógeti, Rvík.
Halldór Kr. Friðriksson, r., yfirkennari, Rvík.
Halldór Guðmundsson, f. skólakennari, Rvík.
Hallgrímr Melsteð, bókavörðr í Rvík.
Hallgrímr Sveinsson, r., byskup, Rvík.
Hannes Þorsteinsson, cand. theol., ritstjóri, Rvík.
Hansen, J. P., lyfsali, Akreyri.
Harrassowitz, Otto, bóksali, Leipzig.
Háskólalestrarfélag Íslendinga í Khöfn.
Helgi Árnason, prestr, Ólafsvík.
Helgi Hálfdánarson, r., lektor, Rvík.
Helgi Jónsson, kaupmaðr, Rvík.
Henry Petersen, assist. v. oldn.museum, Khöfn.
Hermannius E. Johnsen, f. sýslumaðr, Velli.
Hjörleifr Einarsson, prófastr, Undornfelli.
Holger Clausen, kaupm., Stykkishólmi.
Indriði Einarsson, endrskoðari, Rvík.
Ingibjörg Johnson, frú, Rvík.
Íslenzkt kvenfélag í Winnipeg.
Iverus, I. E. D:son V., viceadjunkt, Linköping.
Jakob Atanasíusson, Gerði, Barðaströnd.
Jarþrúðr Jónsdóttir, frú, Rvík.
Jochum Magnússon, verzlunarm., Ísafirði.
Jón Jónsson, kand. med. & chir.
Jóhann Þorsteinsson, prestr, Stafholti.
Jóhannes Oddsson, f. bóndi, Rvík.
Jóhannes Sigfússson, cand. theol., Hafnarfirði.
Jóhannes Vigfússon, prentari, Ísafirði.
Jóhannes Þorgrímsson, dbrm., b., Sveinseyri, Tálknaf.

Jón Borgfirðingr, f. löggæzlum., Rvík.
Jón Gíslason Steinholm, gullsmiðr, Norðrbotni, Tálknafirði.
Jón Gunnarsson, verzlunarstjóri, Keflavík.
Jón Guttormsson, próf., Hjarðarholti.
Jón Halldórsson (frá Svartagili), Ameríku.
Jón Jensson, landsyfirréttardómari, Rvík.
Jón Jónsson, prófastr, Hofi, Vopnafirði.
Jón Jónsson, prestr, Stað, Reykjanesi.
Jón Ólafsson, útvegsbóndi, Hlíðarhúsum.
Jón Pétrsson, r., f. háyfirdómari, Rvík.
Jón Sveinbjarnarson (frá Draghálsi), Ameríku.
Jón Vídalín, kaupmaðr, Khöfn.
Jónas Jónasson, prestr, Hrafnagili.
Jónas Jónsson, bóksalaassistent, Rvík.
J. Th. Johnsen, Suðreyri, Tálknafirði.
Jörgensen, P., kapteinn, Stavanger.
Katrín Þorvaldsdóttir, frú, Rvík.
Kålund, Kr., dr. phil., Khöfn.
Kjartan Einarsson, prófastr, Holti.
Kristján Andrésson, skipstjóri, Meðaldal, Dýrafirði.
Kristján Hjaltason, sjómaðr, Ísafirði.
Kristján Jónsson, yfirréttardómari, Rvík.
Kristján Magnússon, bókbind., Blönduósi.
Kristján Ó. Þorgrímsson, málaflutningsmaðr, Rvík.
Kristján Zimsen, kaupmaðr, Hafnarfirði.
Kungl. Vitterhets- Historie-och Antiquitets Akademien, í Stokkhólmi.
Lange, Chr., verzlunarmaðr, í Khöfn.
Lárus Benedikssson, prestr, Selárdal.
Lárus K. J. Bjarnason, settr sýslumaðr á Ísafirði.
Lárus Þ. Blöndal, r., sýslumaðr, Kornsá.
Lestrarfélag Fljótshlíðar.
Magnús B. Blöndal, Hvammi, Vatnsdal.
Magnús Helgason, prestr, Torfastöðum.
Markús Snæbjarnarson, kaupmaðr, Geyrseyri.
Marta Pétrsdóttir, frú, Rvík.
Mattías Jochumsson, prestr, Akreyri.
Mattías Ólafsson, verzlunarmaðr, Þingeyri.
Mogh, E., dr., Frankfurter Strasse, Leipzig.
Montelius, O., dr. fil., Am., Stokkhólmi.
Ólafr Guðmundsson, læknir, Stórólfshvoli.
Ólafr Ólafsson, prestr, Garpsdal.
Ólafr Ólafsson, prestr, Arnarbæli.
Ólafr Ólafsson, söðlasmiðr, Ameríku.
Ólafr Sigvaldason, héraðslæknir, Bæ, Króksf.
Ólafr Thorlacíus, hreppstj., Stykkishólmi.
Óli Finsen, póstmeistari, Rvík.
Ólína Guðbrandsd., jungfrú, Ameríku.
Ólöf Hjálmarsdóttir, yfirsetukona, Stykkishólmi.
Oscar Brenner, dr., docent, Munchen.
Páll Briem, sýslumaðr, Árbæ.
Páll Melsteð, sögukennari, Rvík.
Pálmi Pálsson, skólakennari, Rvík.
Paterson, W. G. Spence, brezkr konsúll, Rvík.
Pétr Jónsson, blikkari, Rvík.
Pètr J. Thorsteinsson, kaupm., Bíldudal.
Rannveig Jóhannesdóttir, kaupmannsfrú, Rvík.
Rygh, Olaf, dr., prófessor, Kristíaníu.
Sigfús H. Bjarnarson, konsúll, Ísafirði.
Sighvatr Árnason, alþingismaðr, Eyvindarholti.
Sigmundr Guðmundsson, prentari, Rvík.
Sigríðr Sveinbjarnardóttir, jungfrú, Árósi.
Sigurðr Árnason (frá Höfnum), Winnipeg.
Sigurðr Briem, kand. polit., Rvík,

Sigurðr E. Sverrisson, sýslumaðr, Bæ, Hrútafirði.
Sigurðr Gunnarsson, prófastr, Valþjófsstað.
Sigurðr Jensson, prófastr, Flatey.
Sigurðr Jónsson, sýslumaðr, Stykkishólmi.
Sígurðr Jónsson, snikkari, Dýrafirði.
Sigurðr Kristjánsson, bóksali, Rvík.
Sigurðr Melsteð, r., lektor, Rvík.
Sigurðr Sigurðsson, hreppstjóri, Litlu-Gröf, Borgarhr.
Sigurðr Stefánsson, prestr, Vigr.
Símon Bjarnarson, dalaskáld, Silfrastöðum.
Soffia Thorsteinsson, frú, Rvík.
Stefán Egilsson, múrari, Rvík.
Stefán Thorarensen, f. sýslum., Akreyri.
Steingrímr Johnsen, kaupmaðr, Rvík.
Steingrímr Thorsteinsson, skólakennari, Rvík.
Steinnordh, J. H. V., theol. + fil. dr. (r. n.), Linköping.
Sæmundr Jónss., b., Minni-vatnsleysu.
Sæmundr Jónss., próf., Hraungerði.
Tamm, F., A., dr. dócent, Uppsölum.
Teitr Jónsson, veitingamaðr, Ísafirði.
Teitr Ólafsson, veitingamaðr, Seyðisfirði.
Tómas Hallgrímsson, læknaskólakennari, Rvík.
Torfi Bjarnason, skólastjóri, Ólafsdal.
Torfi Halldórsson, kaupmaðr, Flateyri.
Tryggvi Gunnarsson, bankastjóri, Rvík.
Valdimar Ásmundarson, ritstjóri, Rvík.
Valdimar Briem, prestr, Stóranúpi.
Valdimar Örnólfsson, verzlunarmaðr, Ísafirði.
Valtýr Guðmundsson, dr. fil., docent, Khöfn.
Wendel, F. R., verzlunarst., Þingeyri.
Þóra Jónsdóttir, frú, Vestmannaeyjum.
Þorbjörg Sveinsdóttir, yfirsetukona, Rvík.
Þorbjörn Jónasson, kaupmaðr, Rvík.
Þórðr Magnússon, b., Hattardal.
Þórðr Thoroddsen, héraðslæknir, Keflavík.
Þorgrímr Johnsen, héraðslæknir, Akreyri.
Þórhallr Bjarnarson, prestaskólakennari, Rvík.
Þorlákr Guðmundsson, alþingismaðr, Fífuhvammi.
Þorlákr Ó. Johnson, kaupmaðr, Rvík.
Þorleifr Jónsson, prestr, Skinnastöðum.
Þorleifr Jónsson, alþm., Reykhólum.
Þorsteinn Benediktsson, prestr, Bjarnanesi.
Þorsteinn Jónsson, héraðslæknir, Vestmannaeyjum.
Þorvaldr Jakobsson, prestr, Haga, Barðaströnd.
Þorvaldr Jónsson, próf., Ísafirði.
Þorvaldr Thoroddsen, skólakennari, Rvík.
Þuríðr Kuld, frú, Stykkishólmi.

# Efnisyfirlit.

